# Hugvekja

um

# Medferd á úngbørnum

samantekin handa mædrum og barnfóstrum

á

Islandi

af

Jóni Thorstensen

Júſtitsrádi og Landlækni.



Reykjavík 1846.

Prentad i prentſmidju landſins á koſtnad Suduramtsins húſs og búſtjórnarfélags, af H. Helgaſyni.

# Formáli.

Af hendíngu barst mér í hendur í sumar er leid, bók nokkur um medferd á úngbørnum, samin af enskum lækni, ad nafni **Combe**; en þetta atvikadist med þeim hætti, ad herra Stiptamtmadur **Hoppe** hafdi bókina med sér út híngad og lédi mér hana sídan gódfúslega. Bók þessi féll mér betur í géd enn nokkur ønnur bók, er eg ádur hafdi lesid um þad efni, sem hún rædir um, því høfundurinn vill laga alla medferd og allt uppfóstur úngbarna sem nákvæmlegast eptir náttúrunnar edli, enda kom mér þegar til hugar, ad landar mínir mundu géta haft gagn af ágripi nokkru um þetta efni; en þá vildi svo vel til, ad Suduramtsins Húss- og Bústjórnarfélag mæltist til, ad eg vildi semja bækling nokkurn „um medferd á úngbørnum", lagadan eptir þørfum og kjørum landsmanna, og kémur ritlíngur þessi nú hér fyrir sjónir. Ad vísu hefi eg í mørgu atridi haft gódan leidarvísir af þeirri áminnstu ensku rit-

gjørd, í því sem hér á landi gétur átt við, en í mørgu hefi eg þó farið eptir því, sem eg er kominn að raun um að einkum er ábóta vant í meðferð úngbarna hér í landi; því það má géta því nærri, að það er sitt hvað að rita handa bæa búum á Englandi og almúga úti á Íslandi; en þó er eitt sameiginlegt hvorutveggjum, og það er mannleg líkamabygging, og allt náttúrneðli; svo eru og aðalreglurnar allar enar sømu; að ødruleiti má í slíkri ritgjørð einúngis tilgreina það sem kostur er á að komast yfir, eða ná til, í því landi, sem ritgjørðin er ætluð. Eg las því fyrst ritgjørð Dr. **Combes** með athygli, og ritaði þvínæst eptir huga mínum það sem mér í meðferð úngbarna hér á landi, þótti vera áríðandi og þarflegt, og hæglega meiga við hafa, og bið eg lesarann vyrða mér á hægra veg, bæði hvað eg er þrátaladur um það, er eg af reynslunni veit að ollir børnum hér í landi mikills skaða, og líka hvað málfærið er einfaldlegt, en það er einkum þessvegna, að ritgjørð þessi er ætluð almenníngi, og sérílagi kvennfólki, mæðrum og barnfóstrum, og því þótti mér miklu varða að meðferðin á efninu og málfærið væri svo óbrotið og auðveld sem unt væri.

Að lyktum gét eg þess, að þegar eg var lángt kominn með að semja ritlíng þennann, barst mér kver um sama efni, samið fyrir Danmørku af Dr. medic. Professor **Levy**. Bæklíngi þessum hefi eg fylgt í seinasta kapitula í ritgjørð minni, og

tilgreint hina sömu sjúkdóma, sem höfundur hans, nema hvad eg er fjölordari um Krefduna og Ginklofann; svo hefi eg og lagt þau hin sömu ráð, er hann leggur, ad því leiti þeim verdur hér í landi komid vid, eda þá í þeirra stad önnur, er hægra er vid ad hafa.

Reykjavík þann 29da Nóvembr. 1845.

J. Thorstensen.

# Innihald.

## Leidréttingar.

Bls. 4. línu 17. 20 les 10.
— 13. l. 17. l. óvidkvæmari.
— 18. l. 18. mikla l. milda.

Þær adrar prentvillur, sem ekki rugla meiningu, er ætlad lesarans gódfýsi ad lésa í málid, og vyrda á hægra veg.

## Fyrsti Kapituli.

### Um barnadauda yfir høfud.

Hvørr sá madur sem adgætir náttúruna, edur allt hvad skapad er, verdur þess var, ad allir hlutir og øll dýr, sýnast af sjálfu sér vera bundnir vid nokkurskonar reglur, sem eru medskapadar edli þeirra, og sem menn kalla náttúru løgmál; má þad finna ei alleina medal dýranna, heldur einnig medal liflausra hluta. Steinar og jardartegundir og s. framv., vilja hvørt fyrir sig fá vissa løgun (Crystallisation), ef frjálslega fær ad myndast. Grøsin þrifast, hvørt fyrir sig, best i þeirri mold, landslagi og loptslagi, sem hvørri þeirra tegund hagar best. Dýrin i køldu løndunum eru næstum øll þakin hári eda fidri, nema madurinn einn — honum mun hafa verid ætlad af Skaparanum, ad finna rád til ad skýla sér af hugviti sinu. J heitu løndunum eru flest dýr minna lodin, og mørg ber, þvi þar þarf hársins minna med. Flest dýr fella hár og fidur á vørum, edur eptir ársins kaldasta tima, svo þad hafi tima til ad vaxa aptur fyrir næsta vetur. Øll þau dýr, sem fæda lifandi únga, hafa júgur eda brjóst, sem eptir náttúrunnar edli þróast og og fyllist med mjólk um fædingar-timann, og allir lifandi úngar vilja strax nýfæddir sjúga, þvi módurmjólkin

er eptir náttúru-logunum þeirra rétta og edlilegasta fæda, þángadtil þeir fá tønnur.

Þessi náttúruløg benda oss til medferdar á dýrunum yfirhøfud, og hvørnig sérílagi skuli fara med úngbornin, ala þau og fóstra, en þad er undarlegt ad madurinn, sem er svo miklu skinsamari enn onnur dýr, brýtur optar á móti náttúru-løgmálinu, hvad medferd á afkvæmi hans snertir, enn skinlausu sképnurnar; enda deya fleiri børn á únga aldri ad sinu leiti, enn nokkurt annad dýrakyns úngvidi, er manna hjúkrun hefir. Nú hefir hvørt dýrakyn sitt eigid edli og byggingu (Organisation), og ridur mjøg mikid á ad medhøndla hvørt kyn eptir sinu náttúrlegu edli; og sama ætti, hvad børnin snertir, ad vera allra foreldra leidarvisir í medferd barna sinna, ad fara med þau einmidt eptir mannsins náttúrlegu edli, medan hann er úngbarn.

Þad var fyrst seint á 18du, og snemma á þessari old, ad enar mentudustu þjódir fóru ad ransaka hvaraf sá óvenjúlegi barnadaudi orsakadist, næstum í øllum løndum, einkum í samanburdi vid ómálga dýr, sem med gódri hirdingu fjølga lángtum fljótar enn mannkynid, og komust þá einkum engelskir læknar ad raun um, ad mestur þorri úngbarna væri vida hvar ónáttúrlegar medhøndladur enn dýrin medhøndla únga sina; fóru þeir þá ad semja reglur eptir náttúruløgunum, er þeir gátu best giskad á ad réttast mundi vera, um medferd barnanna; og verkin sýna merkin, med því ad þeim hefir heppnast ad minka úngbarna daudann, sumstadar lángt yfir helming af því er hann enn var á midri 18du old, einkum á fyrsta og odru aldursári; og vil eg hér færa nokkur

dæmi til þess, hvorsu þeim hafi þetta geingid í Englandi.

Fyrir 100 árum síðan dóu í enum opinberu erfidishúsum í London 23 af 24 fæddum, ýngri enn árs gömul, eda med ødrum ordum: þar lifdi ekki nema 1 af hvørjum 24 børnum. Leingi létu menn þetta vidgángast, eins og þad væri náttúruunar edli, og ætti svo ad vera, þartil loksins Parlamentid lét ransaka, hvaraf svo óttalegur barnadaudi kæmi; var þá veitt meiri eptirtekt, bædi fædu þeirra, hreinlæti, loptinu sem var í hibýlum þeirra, og allri annari medferd; eptir þessari ransókn, og þar af leidandi umbreytingar og vidgjørdir, minkadi barnadaudinn svo, ad af 2600 børnum er árlega fæddust í betrunarhúsunum, dóu ekki nema 450 á fyrsta ári, í stadinn fyrir ad ádur høfdu dáid hátt á 25ta hundrad; og má héraf sjá, ad margar þúsundir manns hafa þar dáid fyrir handvømm eina, og þó hafa menn máské enn ei gjørt allt hvad møgulegt er, til ad minka þar barnadaudann, því ennþá deyr, þrátt fyrir allar þessar tilraunir, hérumbil hvørt 10da barn á fyrsta mánudi, og er þad meira enn ætti ad vera, ef vel væri.

Eptirtektaverdt er hvorsu mørg úngborn dóu um einn tíma á fædingar spítalanum í Dúblín á enum fyrstu tveim vikum, nefnil. árid 1782, dóu 2,944 af 17,560, eda næstum sjøtta hvørt, héldt Doctor J. Clarke, er þar var læknir, ad slíkt kæmi helst af óhreinu lopti í spítalanum, og lét hann gjøra vindauga vid hvørn glugga, sem opt var opnad á hvørjum degi, og leingst af var opid í gódu vedri, hvarvid loptid vard allstadar hreint í spítalanum, og alleina þar vid minkadi barnadaudinn svo, ad ekki dóu

þar eptir nema 1 af 19 fyrsta hálfann mánudinn, í stadinn fyrir sjötta hvert ádur; og þar vid er adgætandi, ad flestöll börnin, er dáid höfdu ádur, dóu af ginklofa, nl. 19 af 20 er dóu, en hann hvarf svo nálega vid þetta úr spitalanum, ad Doctor Collin, sem var þar læknir í 7 ár þar eptir, vard ei var vid hann nema á einum fjórum börnum, er dóu fyrstu vikurnar, og þakkar hann þad alleina enu hreina lopti og ödru hreinlæti, er hann og Dr. Clarke höfdu séd fyrir ad vid væri haft í spitalanum, hvar börnin vóru. Eg þarf ei ad fara fram á fyrri aldir, til ad sýna, ad óþrifnadur og óhreint lopt, géti ordid börnum ad skada.

Enskur madur nokkur Maclean, ferdadist árid 1838 til eyarinnar Kildu, sem er einstök ey, nordur og vestur af Skotlandi; á þessari ey minkar alltaf fólkstalan ár frá ári, þvi börnin deya flestöll af ginklofa, svo ad af 20 fæddum, deya alment 8, fyrstu tvær vikurnar, likt og á Vestmannaeyum, eda máské verra, og þó segir Maclean ad loptid sé þar hreint, og vatnid ágætt á eyunni, svo hann segist einga orsök geta fundid til þessarar barnadrepsóttar, nema óhreinlæti og fúlt lopt inni í híbýlum innbúanna; þvi þeir hafa, segir hann, kýr og fénad sinn allann á gólfum í sömu kofunum sem þeir búa á pöllum uppyfir, hvar litlar gluggaholur eru, sem aldrei opnast, en óþolandi daun og ólykt er þar af fénadar tadinu, sem svo sjaldan er mokad út, ad þad er trodid nidur af mönnum og sképnum, þángad til þad verdur máské álnardjúpt, og eptir þvi er reykjarsvælan inni í kofunum, af allslags óhroda eldivid, er þeir brenna. Þarámóti var þar prestur einn enskur á eyunni, er bjó í hreinlegu húsi,

og hafdi allt hreinlegt vid, sem sidudum Englendíngum er tidt; hann hafdi átt þar 4 born, sem oll lifdu, og voru hin rosknstu; Maclean segist ei skilja annad, enn ad annara manna born hefdu eins gétad lifad þar, eins og prestsins, hefdi loptid verid eins hreint i húsum þeirra, og allur annar þrifnadur verid vid hafdur, sem presturinn brúkadi, enda kénna flestir útlendir menn óþrifnadi um, sem muni vera einhvor hin mesta orsok til ginklofans, hvar hann svo stodugt liggur i landi, ad meiri hluti allra úngbarna er fædast, deyr úr honum fyrstu tvær vikurnar. Allt er þad odru máli ad gégna, þó einstaka barn deyi af ginklofa, bædi hér um land, og i odrum londum, og veit eg nokkur dæmi til þess hér um pláts, enda hjá hreinlegu fólki, hvar eg ei hefi gétad kénnt um óþrifnadi eda slæmum húsakinnum, en þad er ei nema einstakt barn á medal margra, og hendir þad allstadar, ad vart verdur vid sjúkdóma á einstaka manni, er menn ei géta fundid sérlega orsok til; en þegar þrir fjórdu, eda fjórir fimtu partar af ollum nýfæddum bornum, deya af sama kvilla, ár eptir ár i einstaka plátsi þá meiga þar vera sérlegar orsakir einhvorjar, sem ekki eru svo almennar á odrum stodum. Ekki hefi eg komid i Vestmannaeyar, en heyrt hefi eg sagt af monnum, er þar voru kunnugir, ad ginklofinn væri lángtum sjaldgæfari, hjá þeim er búa þar i kaupstadarhúsunum, eru þrifnir og hafa hreinleg húsakinni, enn hjá hinum, er búa vid allann óþrifnad. Þarnæst hefir barnadaudinn jafnan verid mestur og vestur á þeim opinberu uppfósturshúsum i odrum londum, hvar módurlaus úngborn eru fóstrud á opinberan kostnad, af þvi þau bædi vantar módurmjólkina, og þá náttúrlegu módurhjúkrun, og umhirdingu; og dó mestur

þorri þeirra á fyrri öldum, á fyrsta aldursári, en á seinni tímum hafa menn gjört sér mesta ómak fyrir ad bjarga þessum smælingjum med betri, náttúrlegri og haganlegri medferd, og hefir þad haft hinn besta árángur, eins og ádur er á vikid um erfidishúsin í London, og fædingar-spítalann í Dublin. Snemma á þessari öld, dóu af þesskonar módurleysingjum vída hvar yfir tvo þridju parta á fyrsta ári, þegar af ödrum börnum í Englandi, sem höfdu módurhjúkrun, ei dóu nema 21 ad 22 af hundr-adi, eda rúmlega fimti partur; en þad er hérumbil þre-faldt meira af enum fyrri; en nú deya ei í uppfósturs-húsum í Englandi, nema vart þridji partur, og stundum rúmlega fjórdi partur, eptir því hvad mikil nákvæmni og adgætsla er vid höfd á medferd þeirra.

Eptir því sem medferdin hefir verid betri og náttúr-legri bædi á sængurkonum og börnum, hafa færri dáid af hvorutveggju í ödrum löndum, og vil eg færa dæmi til af fædingar-spítalanum í London, hvad mannlegur kraptur og vilji med upplýsingu orkar ad verja líf manna. Á þessum spítala fæda optast hérumbil 5000 konur um árid, og hafa þar mjög leingi verid gjördar nákvæmar töblur yfir allar sængurkonur er þar hafa fædt, hvorsu þeim og börnunum hefir farnast.

| Frá | dóu af mædrum | dóu af úngbörnum |
|---|---|---|
| 1749 til 1758 | 1 af 42 | 1 af 15 |
| 1759 til 1768 | 1 af 50 | 1 af 20 |
| 1769 til 1778 | 1 af 55 | 1 af 42 |
| 1779 til 1788 | 1 af 60 | 1 af 44 |
| 1789 til 1798 | 1 af 288 | 1 af 77 |

Héraf má sjá að seinast á öldinni dó ei nema vart fimti partur af bornum, í samanburði við hvað dó 50 árum áður, og lítið meira enn sjöundi partur af mæðrum. Líkt hefir geingið yfirhöfuð í tilliti til barnadauðans, bæði í höfuðstaðnum London, hvar framanaf 18du öld dóu innan 5 ára, næstum þrír fjórðu partar barna; en um og eptir aldamótin dó ekki fullur þriðjúngur af þeim á sama aldri, og eins á landsbygðinni í Englandi, hvar þó barnadauðinn jafnan hefir verið lángtum minni enn í enum fjarska stóru stöðum, hvar margar orsakir eru til að börn deya fleiri enn á landsbygðinni; því víða á landsbygðinni í Englandi og Wales, deya ei samtals nú nema 18 börn af 100 dauðum, á fyrsta ári, og þessvegna hefir fólksfjöldinn vaxið á Englandi meir enn í nokkru landi öðru í Norðurálfunni, síðan um aldamótin seinustu, nl. frá 16 milliónum til næstum 28 milliona — Skótland og Irland meðreiknað — og þó flytur sig þaðan á ári hvörju, fjöldi manns í nýlendur Breta í öðrum heimsálfum, svo mörgum þúsundum skiptir á hvörjum mánuði. Svo mikla verkun hefir þeirra betri og eðlilegri meðferð á börnunum haft.

Nú vil eg færa nokkur dæmi til hvörnig á stendur með barnadauðann hér á landi, og hvörsu mikið fólksfjöldinn eykst hjá okkur, og bera okkur í því tilliti saman við aðrar þjóðir.

Hér á landi hefir úngbarnadauði hvervetna verið mikill, nema máské í fyrstu, um og eptir landnámstíð, — fyrir utan þau börn er menn báru út meðan landið var heiðið — því þá munu konur almennt hafa haft börn sín á brjósti, eins og síður var til, og enn er í Noregi

— og vídast hvar um allan heim, nema á Íslandi, — sem sjá má merki til á einstöku stad í sögunum; en eptir þad þær almennt hættu því, og veit ekki hvonær, eda hvorsvegna, held eg úngbarnadaudinn hafi verid hér í mesta lagi, í samanburdi vid önnur lönd, og þessvegna hefir fólkid fjölgad hér mjög dræmt, enda þó mörg góð ár hafi verid samfleytt, og hvorki hallæri né skædar sóttir geingid, því þad er náttúrlegt, þó þad þá fækki um tíma; en hitt er undarlegt, ad þad fjölgar lítid og seint, þó árferd og heilsufar hafi verid í betra lagi; og gét eg ei annad séd, enn sá mikli barnadaudi sé einhvor hin helsta orsök þar til, því þó slisfarir séu hér töluverdar, bædi á sjó og landi, þá munu þær ei vera skjaldgæfari í ödrum löndum.

Þad má sjá af töblum yfir þá daudu á öllum aldri í ýmsum löndum, ad í öllum löndum er úngbarnadaudinn ennþá mikill. Í Englandi öllu yfirhöfud 1838 — 1839, vóru af þeim dánu 218 af 1000 á fyrsta aldurs ári, því þó ei séu fleiri enn 180 sumstadar á landsbygdinni, af 1000, dánir á fyrsta ári, þá eru svo mörg fleiri börn, sem deya í stóru stödunum, og þad því fleiri sem stadirnir eru stærri og fleiri verksmidjur í þeim, svo þegar allt er lagt til jafnadar, verdur rúmlega fimti hvorr dáinn á fyrsta ári. Í Prussalandi dóu árin 1820 til 1828, 269 af 1000, ɔ: meir enn hvorr fjórdi; í Frakklandi 214 af 1000, árid 1802, og í Svíaríki árin 1821 til 1825, 224 af 1000; svo minnstur hefir barnadaudinn verid í Frakklandi og Englandi, enda eru þær þjódir bádar leingst komnar í allri mentun, og einkum í öllu sem náttúrufrædi snertir; í sumum ödr-

um löndum dóu fleiri, einkum í Rússlandi, hvar mentun er minni, einkum medal alþýdu.

Hér á landi hafa lángtum fleiri börn dáid ad sinn leiti, því seinustu 7 árin 1838 til 1844, hafa eptir prestanna töblum.

| | | |
|---|---|---|
| dáid alls hér á landi . . . . . | 13,449 | manns, þaraf |
| börn á fyrsta ári og andvana fædd, | 4,815, | þad er yfir 35 af 100. |
| á ödru og þridja ári . . . . . . . | 808 | |
| á fjórda og fimta ári . . . . . . . | 200 | |
| eda . . . . . . . . . . . . . . . | 5,823 | innan fimm ára, |

sem er meira enn 43 af 100 er deya í allt.

Þaraf má sjá, ad meir enn 35 eru dánir af 100 á fyrsta aldursári, sem í öllum löndum er þad hættulegasta, þó deya hér lángtum fleiri á því ári, enn í þeim löndum, sem ádur er sýnt; og sama er ad segja um samanburdinn um hin árin, ad rúmt 1000 eru dánir frá 1ta til 5ta, og samsvarar þad nokkurnveginn samanburdi vid önnur lönd, eptir því hvad mörg börn deya hér fyrsta árid, því optast deyr vart hvörr fjórdi eda hérumbil hvörr fimti, þau næstu 4 ár, ámóti því sem deyr fyrsta árid, en úngbarnadaudinn er of mikill hér yfirhöfud, samanborinn vid alla fædda og dána á sömu tíd.

| | |
|---|---|
| Í þessi 7 ár hafa hér fædst . . . . . . | 14,289 |
| þegar allir er dáid hafa eru reiknadir frá, med | 13,449 |
| eru eptir einir . . . . . . . . . . . . . . . . | 840; |

sem er allt hvad fólkid hefur fjölgad í landinu um þessi 7 seinustu ár.

Eg hefi ei í höndum töblur yfir fædda og dána í Danmörku nema fyrir ein 4 ár, nl. 1828 til 1830, og árid

1833 einstakt; af þeim sést, ad i þau þrjú ár 1828—1830, hafa samtals fædst þar . . . . . . . . . . . 114,806
en dáid alls . . . . . . . . . . . . . . . . . 101,133
þaraf ýngri enn 10 ára . . . . . . . . . . 35,397
þaraf má sjá ad i Danmørku deya ekki fleiri born allt ad 10 vetra, enn á Islandi á fyrsta ári, eptir tiltolu af ollum sem deya

Vidlikt sýnir tablan yfir árid 1833 i Danmørku nl.
fæddir alls . . . . . . . . . . . . . . . . . 41,919
dánir alls . . . . . . . . . . . . . . . . . 30,761
þaraf ýngri enn 10 ára . . . . . . . . . . 10,810
og verdur þad hérumbil 35 af 100 ýngri enn 10 vetra, en vid missum 35 af 100 á fyrsta ári.

Eg vil enn sýna hvad morg born dáid hafa hjá okkur ýngri enn 10 ára i 20 ár, nl. 1819 til 1838; á þessum 20 árum hafa hér alls:
fædst . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 41,803
dáid. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 30,439
þaraf ýngri enn 10 vetra . . . . . . . . . . 15,680
en þad er meir enn helmingur af ollum er dáid hafa, þegar i Englandi og Frakklandi ekki deyr nema þridjúngur vidasthvar, nema i stóru stodunum, og litid meira enn þridjúngur innan 10 ára i Danmørku. Um þessi 20 ár hefir fólk fjolgad hér um 10,644; og mun þad verid hafa einhvor hin mesta fjolgun hér i landi.

Eg hefi ádur sýnt ad barnadaudinn var miklu meiri vida um lond, enn nú er hann, og fært rok til þess, ad þad stendur ad nokkru leiti i manna valdi ad minka hann; en hjá okkur held eg hann sé vidlika og hann hefir verid margar undanfarnar aldir, og ættum vid nú loksins ad

reyna hvørt okkur ei gétur audnast ad minka hann nokk-ud, med því ad haga okkur í medferd barnanna, svo mik-id sem mögulegt er, eptir náttúrunnar edli og løgum, einkum þegar vid vitum ad slíkar tilraunir hafa fært svo gódann ávøxt i ødrum løndum; og þegar gód og nátt-úrleg medferd á børnunum hefir frelsad svo margra líf í einum opinberu uppfósturshúsum, og yfirhøfud erlendis, væri þad undarlegt, ef hin sama, eda lík, medferd — eptir því sem mögulega verdur vid komid, — hér á landi, ekki gæti haft líkan árángur. Líklega er þad ekki Skap-arans ákvordun, ad meir enn þridjúngur af øllu því fólki er hér á landi deyr, skuli deya ýngri enn ársgamalt; hann mun þvert á móti hafa ætlad manninum med sínu mikla viti, ad géta farid svo náttúrlega med afkvæmi sitt, eins og nú í flestum løndum er fram komid, ad ei dæu lángtum fleiri úngbørn, enn eptir tiltølu deyr af afkvæmi hjá ómálga og skinlausum skepnum. Þad væri óskandi ad allir foreldrar vildu leitast vid ad kinna sér edli barn-anna, og ena náttúrlegustu og skinsamlegustu medferd á þeim, einkum mædurnar; og hvor er sú stúlka sem ei geti gjort sér von um einhvorntíma ad verda módir eda barn-fóstra? því eins og kallmønnum, sem fedrum, er ætlad ad vinna og starfa úti, og draga forda ad húsinu; svo er konunni ætlud stjórnin í húsinu, og sérílagi, eins og øllu módurkyni, øll medferd og adhlynning á børnunum fyrstu árin, og því er mjøg áridandi fyrir allar konur og stúlk-ur, ad kinna sér medferd á úngbørnum, — því þad er mikid sómasamlegt og heidarlegt, ad géta med réttu heit-id gód og skinsom módir, — einkum ættu þær ad læra ad vara sig á øllu því, er geti ordid børnunum ad skada,

því eins og það er einhvor hin besta eign, og mesta gledi fyrir góda foreldra, ad eiga heilbrigd og vænleg born, svo er það mjog þúngt mótlæti, ad sjá uppá sárveik og deyandi born sín, og allraþýngst, ef menn ei vita nema sjálfir sén þeir, einhvorrar fávitsku vegna, skuld i dauda þeirra. Ef nú mædur og fóstrur barnanna sjálfar eru ókunnugar edli barnsins, láta þær sig opt i medferdinni leida af skadlegum vana, hleypidómum og hjátrú, og meina ad sømu reglur megi brúka vid oll børn, hvørnig sem heilsufari þeirra er varid, og án þess ad géta grenslast eptir af hvørju veikindi barnanna muni orsakast, sem opt kémur af ofþúngri fædu, slæmu lopti, er barnid andar, eda odru þesshattar, sem ómøgulegt er ad lækna, medan orsøkinni ekki er útrýmt; og má fullyrda ad margs barns líf þarvid hafi tapast, sem med skinsamlegri medferd hefdi gétad lifad, máské sér og odrum til gagns.

## Annar kapítuli.

### Orsakir til sjúkdóma á úngbørnum

Orsakir til úngbarna sjúkdóma géta ad sønnu verid margslags, þó má yfirhofud skipta þeim i 3 flokka, nl.

1. géta **veikindi** komid á barnid af óedlilegri medferd.
2. **Veikindi** géta geingid i **arf frá foreldrum** til barnanna, hafi þau haft einhvørn mikilvægann heilsubrest; því það er sannreynt, ad born erfa opt heilsufar foreldranna, og kalla eg það medfæddann veikleika, sem er fólginn i líkama byggingunni
3. **tilfallandi veikindi** og yfirgnæfandi barna sjúkdóm-

ar, t. a. m. andarteppuhósti, og adrir hættulegir sjúkdómar, er stundum hafa geysad hér um allt land og drepid fjolda barna, t. a. m. árid 1826 og 1827.

Þau veikindi, sem koma af medferdinni, ættu menn ad géta hindrad med því ad laga medferdina sjálfa.

Eptir náttúrunnar edli þurfa bornin strax, er þau eru fædd, ad hafa hreint og mátulega temprad lopt til ad anda, og andardrátturinn má aldrei hætta, því þá deyr barnid mjog brádt; en þari er meira varid enn margur hyggur, ad loptid sem barnid alltaf dregur ad sér med andardrættinum, sé bædi hreint, og hvorki of kaldt né of heitt.

Pad er samkvæmt náttúrunnar edli, ad allar sképnur, sem anda draga, þrífast ei nema i hreinu lopti, en mest ber þó á því á enum nýfæddu, sem veikar eru fyrir, og óvanar loptinu. Þeir fullordnu eru þolnari og óvidkvæmnari i því sem odru, enda eru þeir ei svo fastir inni i húsunum, ad þeir ei vid og vid komi út undir beran himin, og þar géta þeir þá ætid feingid hreint lopt, en bornin koma sjaldan undir beran himin fyrstu vikurnar, og meiga alltaf lifa i því lopti, sem er i foreldra húsunum, hvort þad svo er heilnæmt eda óheilnæmt. Sé nú barnid i hreinu, mátulega volgu og þurru lopti, og brjóst þess svo rúmlega klædt ad þad vel géti þanist út svo sem vidþarf, svo andardrátturinn sé lidugur og óþvingadur, þá geingur andardrátturinn eins vel og vera á eptir náttúrulogunum, en sé loptid óhreint, fullt af reyk, riki edur illum dompum — sem opt mun vera hvar margt fólk er inni i litlum húsakinnum, en hvorgi er vindauga, sem hreint lopt géti komist inn um, — eda þad er annadhvort

ofkaldt edur ofheitt, eda brjóstid klædt i þraung fot, svo þad ei gétur þanist svo út sem þarf, verdur andardrátturinn þvingadur og ófullkominn, og þá er brotid á móti náttúrulogmálinu i medferdinni, hvad andardrættinum vidvikur, enda þarf þess ei leingi ad bida, ad barnid verdi veikt, og máské deyi, nema þvi fljótar sé adgjort, og alleina med þvi ad barnid géti dregid frjálslega audann i hreinu lopti, þvi oll onnur medol eru þar ónýt.

Sama er ad segja um fædu barnsins; Skaparinn hefir ætlad þvi módurmjólkina alleina fyrstu mánudina eptir ad þad er fædt; fái þad hana ekki, — eda ef þad er ómogulegt — svo létta og haganlega fædu, sem næst kémst módurmjólkinni um flesta hluti, heldur þúnga og óhentuga mjólk, sem magi barnsins ei þolir, og ekki gétur melt, er þad eins brotid á móti náttúru = edli barnsins i medferdinni, hvad fæduna snertir, sem brádum lýsir sér i veikindum, er hafa upptok sín i maganum, til ad minda uppkost, uppþemba, nidurgángur, og annad þviumlikt, sem leggur morg born i grofina, þvi ómogulegt er ad lækna slikt, nema orsokinni, er ollir þvi, sé burtu rýmt, og enda þó þá loksins, er menn eru hræddir ordnir um ad barnid muni deya, matarhæfid sé lagad, er þad opt um seinan, þegar barnid er ordid sárveikt, þvi betra er heilt enn brotid; og opt er hægra ad hindra og koma i veg fyrir veikindi, enn ad lækna þau, þegar þau eru ordin svo mognud, ad allt likamans edli er komid i óreglu.

Menn hafa gjort margar tilraunir med ýmsar sképnur, ad þær þola ekki þad lopt sem þeim er ócdlilegt, og géta ei heldur lifad af þeirri fædu, sem af Skaparanum ei var þeim ætlud; og ad minnsta kosti þrifast þær lángt

um verr af öllu ödru, enn þeirra kyni er edlilegt. Láti madur lifandi fiska i óhreint vatn, deya þeir; og þó géta þeir lifad mikid leingi i hreinu vatni, inni i manna híbýlum; en loptid er sama fyrir mennina og dýrin, sem vatnid fyrir fiskana. Þess hefir ei nógsamlega verid gætt, enda hjá enum mentudustu þjódum, fyrri enn á 18du öld, hvad mikid ridur á, ad loptid sé hreint i öllum iveruhúsum, og **einkum** hvar úngbörn eru inni, eins og ádur er á vikid um fædingar-spitalann i Dúblin; en nú vita menn til hlýtar allt, hvornig loptinu og andardrættinum er varid, og ad hvörki menn né sképnur géta til leingdar lifad i því húsi, sem svo er allstadar þéttlokad, ad ekkért lopt kémst neinstadar inn um þad, því loptid skémmist vid hvörn andardrátt, og dregur út med sér óhreinindi úr lúngunum og blódinu, og því verdur þad alltaf ad blandast med hreinu lopti utanad, og þad ridur því meir á því, sem fleiri menn sitja inni i litlu rúmi, sem opt mun vera hér á landi á vetrarkvöldum i badstofuloptum; og ætti því i öllum þeim húsum ad vera vindhola, eda litill strompur upp úr mænirnum, hvar öll gufa géti lagt út, og hreint lopt komid inn um aptur; hefi eg raunar séd þad vida á bæum, en þad er þó ekki nærri allstadar. Úngbörnin eru lángtum vidkvæmari i lúngunum enn fullordnir, og þola því enn verr óhreint lopt; en þau géta ei sagt til; og sama er ad segja um allt úngvidi; þad er alkunnugt ad hænu-úngar deya af litilli reykjarsvælu, þó fullordin hænsni þoli nokkurn reyk. Dr. Combe færir dæmi til þess, er hann var sóktur til úngbarns nokkurs, er var sárveikt; módirin hafdi af umhyggju fyrir barninu, látid lima bréf yfir allar rif-

ur vid gluggana, svo hvorgi gæti komid kaldt lopt ad barninu, og jafnvel látid stinga uppi stráargotin á dyrunum; hún þordi ei ad opna nokkurn glugga, en kindti þvi meir ofninn, svo þar var mjog heitt, og reykjarsvæla úr ofninum, — þvi eldurinn gat ei brunnid, þar loptsstrauminn vantadi i húsinu. —

Dr. Combe sá ad barnid var nábleikt, hafdi einhvorskonar andþreyngsli; og var ad sjá sem þad þá og þá mundi fá krampaslag, hann vildi strax láta opna glugga; þad þordi módirin einganvegin; loksins opnadi hann þó gluggann litid, svo reykinn ad minnsta kosti lagdi út, en strax sem hreina loptid komst inn, bráadi svo af barninu, ad þad eptir litla stund var ordid sem heilbrigdt, og þad þurfti ei adra lækning, enn ad láta opna gluggann nokkrum sinnum á dag, svo loptid bædi væri hreint og reykjarlaust inni.

Eg gæti og fært nokkur lik dæmi til, sem oll sanna þad sama, og ad þad ridur mikid á um alla, og einkum um ómálgabornin, ad grenslast eptir hvaraf veikindi þeirra muni vera komin, þvi ef þau orsakast af loptinu, eda matarhæfinu, hjálpa eingin medol vid þeim, nema þvi sé breytt, einsog barninu hagar; og þá þarf skjaldan annara lækuismedala med, ef þad er i tima gjort; og allrabest færi, ef allir gætu verid svo adgætnir og nærgætnir, bædi hvad loptinu vidvikur, þar sem úngbornin eru inni, og fædunni sem þau nærast á, ad þau skjaldnar þyrftu ad veikjast af þvi. Þad er i þessu tvennu, ad optast og mest er vikid frá ennm edlilegu náttúrulogum i medferdinni á úngbornum.

Þarnæst er hreinlæti, sem ætid ætti ad adgætast, og

ekki sízt hvad úngbornunum vidkémur. Vid sjáum ad dýrin þrífa únga sína, og halda þeim svo hreinum, ad sumir mennirnir mættu skammast sín, ef þeir bæru sig saman vid þau, — sem mörg þrífa úngana ágæta vel, til ad m. hundurinn, kötturinn og fl., — og þad því fremur, sem madurinn hefir vit á ad brúka vatnid, sem dýrin ekki géta, og á hann því lángtum hægra med ad gæta hreinlætis enn þau.

Þad sem allir menn þurfa naudsynlegast med til ad géta lifad, er:

1. **Loptid**, til ad anda, hvarvid blódid hreinsast í lúngunum, og
2. **Fædan**, sem nærir líkamann og styrkir.
3. **Klædi og hreinlæti**, sér til skýlis og þrifa, og er þad optast vantemprun eda vanbrúkun á einhvorju þessu, eda fleiru í senn, er ollir svo miklum veikindum, einkum medal úngbarnanna, og enda opt hjá fullordnum, þó þad optast hjá hinum sídari sé óhóf í mat og drykk; og þar úngbornin ekki þurfa annars med í fyrstu, enn alls þessa, ætla eg mér ad géta nokkud um hvort fyrir sig, þegar eg fer ad tala um medferd á nýfæddu barni.

**Medfædd veikindi** géta verid arfur frá foreldrunum, sem menn verda opt varir vid af reynslunni. Þad er nefnilega af henni alkunnugt, ad opt og tídum þeir menn, sem eptir því er unnt er um ad dæma, sýnast ad lifa í vesæld lukkunnar, missa stundum mörg af börnum sínum á únga aldri, og þau er komast á fót, eru opt vesælingar, og þrífast aldrei edlilega; en aptur lifir hjá mörgum fátæklingi, hvort barnid eptir annad, og rennur

upp eins og fífill í túni, og það enda opt við sult og báginði; svo hvorr gæti öfundað annann, sá ríki hinn fátæka af barnaláninu, og sá fátæki hinn ríka, af fésældinni, enda er eingum alls varnað. Menn hafa frá elstu tíðum þóktst taka eptir því, að mörg veikindi, er foreldrarnir hafa haft, koma fram á börnunum seint eða snemma; þó er það ekki alltént, og við ber það, að heilsuveikir foreldrar géta hraust börn. Einkanlega þykir þó brjóstveiki, innanmein, ýktsýki, kirtlaveiki, móðursýki og hjartveiki, ef foreldrar hafa haft þá sjúkleika í meira lagi, koma fram á börnunum; að minnsta kosti ber það optlega við, þó ekki sé það á öllum börnum veikra foreldra. Dr. Combe telur þessar orsakir helst til meðfæddra barna-sjúkdóma:

1. Heilsubrest hjá foreldrunum, er kémur af veikri líkamabyggingu þeirra.
2. Að foreldrarnir giptist ofúngir, einkum ef konan er heilsulítil, eður annaðhvort foreldranna er komið af heilsulitlu kyni.
3. Að foreldrar séu of náskildir að frændsemi, og einkum, sé annaðhvort þeirra af veikri ætt.
4. Að ofmikill munur se á aldri foreldranna.
5. Ásigkomulag foreldranna, þegar barnið er gétið.
6. Heilbrygðis ástand móðurinnar, og öll hennar aðferð, meðan hún geingur með barnið.

Þó þær 4 fyrstu orsakir, er hér eru taldar, ei géti gjört mikið að verkum til að koma í veg fyrir þá barnakvilla er þaraf rísa í bráð, þá meiga þær þó nefnast bæði til eptirþánka og aðvörunar, og líka til þess, að meðferðin, ef maður veit að þvílíkt muni vera orsök til veik-

inda barnsins, géti ordid lögud eptir því. Einkum verda menn þess varir, ad þar, sem fleiri af þessum or-sökum fylgjast ad hjá foreldrunum, verda börn þeirra opt vesæl og heilsulitil, sem sjá má á mörgum höfdingja ættum, því margir af þeim giptast úngir, og opt náskild-um sér, þar annad þykir ei jafnrædi; enda hefir komid slík ótíngun í margar þvílíkar ættir, ad sumir hafa eing-in börn gétad átt, og sumir hafa ad visu átt börn, en þau hafa verid kryplingar og afstirmi, bædi til sálar og líkama, og hafa þannig margar höfdíngja ættir lidid undir lok. Má og vera ad lifnadur þeirra ei hafi ætid verid hollari enn kotúnganna, þó þeir hafi haft meira vid ad lifa.

Pad er ætid gódur kostur á hvorjum ektamaka, og ekki sist á konunni, ad hann sé heilsugódur og af hraustu og heilbrigdu kyni: því pad er sannreynt, bædi med menn og sképnur yfir höfud, ad edli líkama-bygg-ingarinnar geingur í arf; menn vita dæmi til í einni ætt í Skotlandi af bóndastétt, ad margir fedgar, hvorr fram af ödrum, komust lángt yfir tirædt; hins sama hafa menn ordid varir í Noregi; og hafa flestir þeir menn aldrei ordid veikir alla sína æfi, fyrr enn ell-in yfirbugadi þá; sem sýnir ad heilbrigdin, eins og veik-indin, geingur í ættir, og er hún einhvor hinn besti arfur.

Pad er ad sönnu sjaldgæft, ad fólk giptist mjög úngt hér á landi, en pad er eptir náttúrunnar edli, best ad fresta því uns líkaminn er ordinn fullkomlega þroskadur, því þá er meiri von ad börnin verdi heilsugód; konurnar ættu aldrei ad vera ýngri enn yfir tvitugt, og mennirn-ir ekki ýngri, enn ad minnsta kosti fullra 25 ára gamlir.

Um ofmikinn aldursmun milli hjóna er bágt ad

segja med vissu, þvi menn eldast mjög misjafnt; en opt er það þegar gamlir menn, sextugir eda eldri, eiga úngar stúlkur, ad börn þeirra verda heilsutæp; þó bregdur opt útaf því, hafi fadirinn jafnan verid hraustur; en giptist úngir menn gömlum kéllingum, kémur slíkt hjónaband ekki þessu máli vid. Ad odruleiti er það aldrei holt, ad konan sé miklu eldri enn madurinn. Þau börn sem eru gétin, þegar foreldrarnir, annanhvort eda bædi, hafa haft einhvorn sérlegann sjúkdóm, edur einhvorja óreglu í kroppnum, bera þess opt menjar; menn þykjast, til ad minda, hafa tekid eptir því, ad börn, gétin í ofdrykkju, hafi ordid stakir heimskingjar, og enda fífl. Af ollu þessu er þó mest varid í módurinnar ástand, bædi á sál og líkama, medan hún geingur med barni, því það er fullreynt, ad ekki einúngis heilsufar hennar, heldur allt skapferli, gédslag, allt athæfi og adbúnadur, hefir mikla verkun á fóstrid, er hún geingur med.

Það væri óskandi, ad konur væru betur fræddar um, hvornig þær ættu ad haga sér um medgaungutimann, enn almennt er, og mundu þær þá betur fordast margt það, er gétur ordid bædi fóstrinu og sjálfum þeim ad skada. Það er vida í löndum alþýdu trú, ad ef eitthvad ber óvanalegt fyrir augu þúngadrar konu, svo hún verdi snögglega hrædd, hafi það skadlega verkan á fóstrid, og því verdur ei neitad, ad allar gédshræringar, einkum ótti, hrædsla eda stödugur kvidi fyrir einhvorju, og ofsa reidi, hafi skadlegar afleidingar fyrir fóstrid. Þúngud kona ætti því sem best hún gétur, ad fordast allar sterkar gédshræringar, því þær eru ætid fóstrinu óhollar.

Menn vita þess dæmi, ad barn, sem er á brjósti, fær kveisu í magann, og verdur órólegt, ef konan, sem þad sýgur, reidist mikilega; hvada verkun má þá ei þvílík gédshræring hafa á fóstrid, er fær blód sitt frá módurinni, og er í lángtum nákvæmara sambandi vid hana enn brjóstmylkingurinn?

Í stridi þvi, er **Frakkar** áttu vid **Þýdskaland**, og önnur lönd, seinast á 18du öld og undverdlega á þessari, gátu menn glögglega komist ad raun um, hve mikla verkun hrædsla og kvidi gjordi á óborin föstur í þeim borgum, er umsetnar eda teknar vóru med herskildi; færir **Dr. Combe** dæmi til þess, eptir fronskum læknir, ad nafni **Percy**, sem ritadi þad, og var sjónarvottur ad þvi, þá hann var læknir í her Frakka. Árid 1793 settust **Frakkar** um viggirdta borg, **Landau**, fyrir vestan **Rínará**; skutu þeir leingi á hana, og vóru, sem nærri má géta, allar konur í borginni í sífeldum ótta og hrædslu, medan á þvi stód. Loksins hljóp eldur í púdrid í kastalans vopnabúri, svo þad flaug allt í lopt upp, med svo ógurlegum hvelli og eydileggingu, ad allir urdu óttaslegnir, þeir er í stadnum og þar nálægt vóru. Á enum næstu tveim mánudum, fæddust 92 börn í **Landau**, og dóu 16 af þeim strax vid edur eptir fædinguna; önnur 33 lifdu eymdarlífi um tíma, og vóru öll dáin innan 10 mánada; 8 urdu fífl, og dóu öll ádur enn þau urdu 5 vetra; og 2 fæddust beinbrotin á útlimum; og kéndu menn þad skothridinni og hvellinum, þegar vopnabúrid flaug í lopt upp. Hér dó þannig lángtum meir enn helmingur af þeim börnum, er fæddust einúngis þá næstu tvo mánudi — þau er fæddust hina næstu mánudi þar á eptir, veit eg ei

um — án efa ad mestu leiti af þeim sífeldu kvíða og hræðslu, er mæðurnar voru staddar í, medan á umsátrinu stód, og því er þaraf leiddi. Mörg slík dæmi munu finnast í óttalegum stirjaldártídum og odrum landplágum, en fæst þeirra eru nákvæmlega ritud; enda er þetta nóg til ad sýna, hvad sífeldur kvídi og hræðsla mæðranna, verki á fóstur þeirra, en þær géta ei gjört vid því þegar svo ber undir, þó þær verdi hræddar; en reidina, sem kémur af gédslaginu, ættu þær ad géta sefad, og þad því heldur, sem þúngud kona má vita, ad reidin verkar skadlega á fóstursins líf og heilsu, um leid og hún hittir sjálfa sig fyrir; og ætti hún því af öllum kroptum ad fordast þær enar sterku gédshræringar, sem í hennar valdi eru; því eins og reynslan opt hefir sýnt, dregur barnid opt keim af enu sama skaplyndi, sem módurin hafdi um medgaungutímann. Sama er ad segja um þær mædur, er lifad hafa í sífeldri ángist og kvída um medgaungutímann, ad börn þeirra, sem komist hafa á fót, hafa alla æfi haft þann annmarka, ad vera odrum fremur hræðslugjörn, huglaus og hjartveik, og færir Dr. Combe mörg dæmi til þess úr Englands sögu.

Margar konur eru um médgaungutímann hræddar um, ad þeim muni gánga bágt ad ala barn sitt, og er hid mesta mein ad slíkum kvída; því reynslan hefir sýnt, ad þeim konum sem eru léttlyndar og huggódar, er vant ad gánga best, en hinar sem alltaf eru kvídafullar, eiga opt hardara í; og einkum verda börn þeirra vesælli enn hinna; því barnsþúngi og fæding má ekki kallast sjúkdómur, heldur náttúrunnar edlilegt ástand, hvarvid mannkynid eptir náttúrulögunum, á ad haldast vid og fjölga; eptir

náttúrunnar reglum er barnssængin og sjaldan mjøg hættu-leg, og nær því aldrei, ef náttúrlega er farið með kon-una, bæði um meðgaungu og fæðingar tímann, og þó einkum eptir fæðinguna. Ef konan því um meðgaungu-tímann jafnan er glaðlynd og í góðu skapi; hafi hún næga hreifingu; hæga en einga stritvinnu; athugi hún vel matarhæfi sitt, og borði aldrei annað, eða meira í senn, enn henni verði gott af; beri hún jafnan rúmleg föt, og hafi hreint lopt í húsi sínu, og allt hreinlæti við sjálfa sig, mun það vera mjøg sjaldgæft, að hún þurfi að kvíða fyrir því að ala barnið, eður að það muni gánga henni illa, því hagi hún sér, einsog nú var sagt, lifir hún samkvæmt náttúrunnar eðli, án nokkurrar hættu fyrir sig eða fóstrið.

Sumar þær konur, er annars eru heilsulitlar, eður opt þjást af móðursýki o. s. frv., eru opt heilsubetri þeg-ar þær eru þúngaðar, og verður ekkért að meini, hvørki um meðgaungutímann né á barns-sænginni.

En — þareð svo mikið ríður á að þúngaðar konur ætíð séu í góðu skapi, ættu allir, sem þær eiga að búa saman við, að gjøra sér það að skyldu, að sýna þeim blíðu og eptirlæti í allri umgeingni, og varast að gjøra þeim gramt í geði, en miklu fremur leitast við að gjøra þeim allt það til yndis og skémtunar, sem saklaust er úti að láta, að þær géti búið sem optast yfir glöðu geði, sem bæði sjálfar þær og fóstrið, hafa svo gott af.

Það er sumra manna trú, að þúngaðar konur þurfi meiri mat enn annars, vegna þess að fóstrið nærist af móðurinni, en eg ætla það sé opt þvert á móti, því víst er um það, að margar eru þær konur, er borða þá minna enn ella.

Það er náttúrunnar edli, ad konan hættir ad missa tídablód, þegar hún er ordin ólett, því barnid nærist af blódi hennar, og má hún því ei missa það eins og ádur, því náttúran mun hafa ætlad svo til, ad fóstrid mundi þurfa vidlíka mikid blód til næringar, sem módirin missti ádur; enda munu þær konur vera færri, er bordi meira þegar þær eru þúngadar; ad ödru leiti má hvor þúngud kona borda svo mikid og lítid sem hún þarf, og henni verdur gott af, og þann sama mat sem hún er von; en ef hún verdur þess vör, ad einhvör fæda orsakar henni uppþembing, óreglu í maganum eda hardlífi, ætti hún ad varast hana, og leita fyrir sér af öllu því er hún hefir kost á, ad borda það helst er hún hefir best af; því hvad matarhæfid snertir, gildir eingin regla án undantekningar, fyrir alla, enda hefir ei hvör kona þau matarrád, ad hún hafi um margt ad velja. Allt hvad orsakar blódshræringar, svosem áfeingir drykkir, og enda kaffi, ad minnsta kosti ef það er sterkt, ættu þúngadar konur ad fordast. Þar á móti er þeim öll hæg vinna yfrid höll, og lángtum betri enn ydjuleysi, er bædi öllir leidinda og vanheilsu. Þeim er lángtum hollara ad vera vid og vid á stjái, enn ad hafa miklar kyrrsetur, og einkum ættu þær daglega, þegar gott er vedur, ad gánga sér spölkorn úti undir berum himni, nema ef þær hafa eitthvört starf vid útivinnu á sumardag, því hreina loptid, sem úti er, styrkir líkamann, og því hafa þeir, sem almennt eru úti, betri heilsu, enn hinir, sem hafa kyrrsetur miklar í húsum inni. Vid öllu sterku áreynslu-erfidi á ad hlífa þúngudum konum, því það getur ordid bædi þeim og fóstrinu hættulegt.

Það er en fremur góð regla fyrir þúngaðar konur, ætíð að bera rúmleg föt, sem hvergi stre ingi þær saman um holið. Eg ætla nú það sé ei almennt hér á landi, að kvennfólk snæri sig svo fast saman um lífið, til að sýnast miðtið mjórra, einsog mjög almennt hefir geingist við í bæum erlendis, enda er það ei hentugt hér á landi, hvar flest kvennfólk geingur að vinnu, en utanlands hefir mörg kona með því bæði drepið sjálfa sig og fóstur sitt; því þær stúlkur sem snæra sig mjög um miðtið, meðan þær eru úngar, skékkja beinin í lífinu, svo fæðingin verður örðugri, þegar þær verða óléttar; og gjöri þær það líka þúngaðar, verða börnin opt skökk og bjúg, en þær sjálfar fá loksins krabbamein í móðurlífið, og deya af því; var sá sjúkdómur skjaldgæfur í fyrri tíð, en er nú lángtum almennari, hvar kvennfólk tíðkar þessar fíflslegu streingingar; svo loksins er flest skynsamt kvennfólk nú farið að forðast þær, t. a. m. á **Englandi**, og víða annarstaðar.

Þar á móti hefi eg orðið var við, að á mörgu kvennfólki hér á landi, sitja geirvörturnar svo lángt inni í brjóstinu, að þær valla verða sognar, og þegar þær eiga barn, og eg, einsog eg optast hefi gjört, hefi ráðið þeim að hafa það á brjósti, bera þær það opt fyrir sig, að þær hafi svo kallað **holubrjóst**, sem börnin því ei géti sogið, og færast með því undan að hafa barnið á brjósti. Stundum eru þetta að nokkru leiti viðbárur; en ekki gét eg neytað því, að á sumum konum hafa geirvörturnar verið svo flatar, að valla var mögulegt, að nokkurt barn gæti sogið þær, og iminda eg mér, þar eg aldrei minnist að hafa séð utanlands þvílíkar geirvörtur, að það komi af því, að stúlkurnar í uppvertinum hafi borið ofþraung föt um

brjóstid — almennt hér sunnanlands þraungvar prjóna-peisur — því brjóstin, og einkum brjóstvorturnar, ná þá ei ad vaxa og þróast eptir náttúrunnar edli, heldur kýt-ast saman, svo geirvörturnar, er eiga ad standa eins og spenarnir á dýrunum, töluverdt út frá brjóstinu, svo barn-id vel géti sogid þær, standa næstum ekkért út frá því; og á því barnid mjög bágt med í fyrstu ad toga þær svo út med munninum, ad þad géti sogid, enda vantar á stundum þolinmædina hjá módurinni, þegar hún í raun-inni ekki nennir ad hafa barnid á brjósti, sem bædi er ónáttúrlegt, og, því midur, þó ordid ad almennum vana hér á landi, til mikils skada fyrir vesælings börnin og módurina sjálfa. Eptir náttúrunnar edli ættu eingin föt á líkamanum ad vera mjög adskorin, en allrasíst á uppvarandi kvennfólki um brjóstid og lífid, svo ad líkaminn géti frjálslega vaxid, þróast og myndast eptir edli sínu; því ef hann ekki fær þad, vegna einhvorrar þvíngunar, gétur þad ollad, afarmiklum skada, og meiri, enn marg-ur hyggur, bædi fyrir únglingana sjálfa, og einkum, hvad kvennfólkid snertir, þess afkvæmi. Sérílagi er þad um-vardandi fyrir úngar stúlkur, þegar brjóst þeirra fara ad þróast — sem optast er frá 13 til 16 aldurs árs — ad þær hafi svo rúmleg föt yfir brjóstid, ad hvorgi þreyngi ad brjóstum þeirra, og allra síst ad geirvörtunum; því þad gétur, ekki einúngis gjört þær óhæfilegar til ad hafa börn sín á brjósti sídar meir, heldur og eptir á, géfid tilefni til, ad þrimlar og meinsemdir komi í brjóstin, ef þad verdur ómögulegt ad ná mjólkinni úr þeim, og er þad hin mesta óhollusta.

Í svefnstofu þúngadrar konu ætti jafnan ad vera

hreint og gott lopt, og reykjarlaust. Ef ei verdur lokid upp glugga daglega, ætti þar ad vera eitthvört vindhol, svo loptid géti ætid hreinsast og haldist vid, eins og ádur er um gétid; enda er þad naudsyn hvorjum manni. Svefn ætti þúngud kona ætid ad hafa nægann og rólegann, ad þvi leiti menn géta adgjørt.

## Þridji Kapítuli.

### Um barnsins ásigkomulag um fædíngartímann.

Vid sjálfa fædinguna skédur fjarska mikil umbreyting i øllu barnsins ástandi; ádur má kalla sem þad hafi verid einn partur á módurinnar likama; þad hefir feingid alla sina næríngu af blódi hennar, og kennir, án efa, skjaldan til, nema ef módirin hefir einhvorja þjáningu, þá verkar hún og á fóstrid frá módurinni. Skilningarvitanna gætir ekki, medan ekkért ber fyrir þau, hvorki ljós né hljómur, lykt eda smekkur, og utan frá, gétur barnid ei ordid fyrir miklum áhrifum, medan þad, eins og úngi i eggi, syndir i þeim mikla, alltaf jafnvolga vokva, sem Skaparinn ætladi þvi, til ad vardveita þad frá øllu útvortis hnjaski. Heilinn er i fullkominni ró, þvi fóstrid þekkir eingin áhrif, og hugsar þvi um ekkért. En Skaparinn lét heilann og øll skilningarvitin vera tilbúin, til þess ad géta tekid á móti áhrifunum i veroldinni, og smátt og smátt vanist vid, og lært ad þekkja þau. Allar þær tilfinningar = taugar (nervi), sem einkum þéna barninu strax til lifsins vardveitslu, t. a. m. þær, er géfa tilfinning øllu þvi, er vinnur ad andardrættinum, þvi hans þurfti og brádast vid, eru vid fædinguna fullkomnastar; svo og þær taugar, er géfa vodvunum tilfinning og hreifingu,

og þær, med hvørjum viljinn verkar á hreifínguna. Þar á móti er heilans efri og fremri hluti, enn þá ekki eins fullgjordur; — i þeim portum sýnast hugvit og sálargáfur ad búa — enda þurfti barnid þeirra ei vid fyrst um sinn, fyrri enn þad hafdi feingid nokkra þekkingu af reynslunni og vananum; og á þeim tíma fullmindast allur heilinn. Andardrátturinn hefir ei fyrri til verid, óg gat hvørki verid, né heldur þurfti hans vid, þar Skaparinn hefir svo dásamlega séd fyrir øllu því, er í hans stad og margs annars, þurfti ad vera í módurlífi. En hvílik umskipti verda ekki i því barnid fædist! eg íminda mér þad muni vera svipad því, ef sofandi manni væri fleygt ofan i kaldt vatn, og hann vaknadi vid þad. Loptid, sem optast er kaldara enn módurvatnid, er þad ádur syndti í, ljósid, hljómurinn o. s. frv., gjørir nú allt i einu áhrif á barnid, enda þurfti þess med, því þad kalda lopt upplifgar og uppørfar þá krapta, sem mida til andardráttarins, sem nú byrjar strax, og án hans gétur barnid ei lifad litla stund, eptir ad þad er laust frá módurinni; hann er og þad fyrsta lífs merki, eptir ad barnid er fædt, og þarnæst fer þad ad veina, því þad kann ei vid sitt nýa ástand.

Skinnid er mjøg vidkvæmt á úngbørnum, og er þad eptir Skaparans visdómi, því þess meiri áhrif gjørir kalda loptid til ad ørfa andardráttinn, en ef þad ei nægir, vegna þess ad blódid stigur barninu mjøg til høfudsins, svo þad er i dái og tilfinningarlitid, eda þad er blódlitid, af því módirin hefir haft blódlát um medgaungutímann, þarf ad sletta køldu vatni í andlit þess, og á brjóstid, og skélla þad med lófanum á endann; raknar þad

þá við, og fer að draga andann, og síðan að hljóða Upp frá því hefir blóðið sína reglulegu umrás, því andardrátturinn miðar til að umbreyta æðablóðinu í lifæðablóð eða slagæðablóð, sem rennur um allann líkamann, styrkir hann og nærir; þarvið verður og matarsaftin (chylus), sem kémur frá maganum og þörmunum inni æðablóðið, að fullkomnu lifæðablóði; en það geingur þannig til: Allt það blóð sem kémur frá líkámanum, rennur í ótal smáæðum inn í aðrar stærri, og seinast verða úr því tvær stóræðar rétt við hjartað (vena Cava superior et inferior), sem gánga inn í hægra fordyri hjartans (atrium cordis dextrum), og þaðan inn í hægra hjartahvolfið (venticulus cordis dexter); þaðan geingur aptur stór æð (arteria pulmonalis) til lúngnanna, og dreifir sér þar í óteljandi smáæðar um öll lúngun, og endast æðar þær allar í smáblöðrum, sem eru mjøg þunnar; en lúngun líkjast mjøg svampi í byggíngunni, svo að loptið, er sogast inn með andardrættinum, fer inn í þau allstaðar, eins og það væri svampur eða kérfi af óteljándi smáblødrum. Loptið tekur nú með sér frá einum smáu blóðblødrum, sem æðarnar enda í, øll þau óhreinindi, eður allt það efni, er líkamanum ei leingur gagnar; en blødrurnar taka til sín aptur af loptinu það nauðsynlega efni til lífsins viðurhalds, lífsloptið (oxygenium), hvarvið allt blóðið verður hárautt að lit, í staðinn fyrir að áður var það bláleitt, er það kom inn í lúngun. Nú smásafnast blóðið frá øllum þessum blóðblødrum í lúngunum, aptur í æðar, sem allar færa það saman í aðrar stærri, og loksins í tvær, hægri og vinstri; falla þær báðar inn í hjartans vinstra fordyri (atrium cordis sinistrum), og þaðan inn í hið

vinstra hjartahvolf (venticulus sinister), hvadan allt þetta hreina lífsblód rennur út aptur í gégnum þá stóru slagæd (aorta), sem skiptist fyrst í tvær slagædar, og þær sídan í fleiri og fleiri, sem færa blódid loksins í smáædum allstadar út um líkamann, fæda hann, næra hann og stirkja, og rennur þad svo, eins og eg undverdlega gat um, aptur ad hjartanu í blódædunum. Þannig gétur hvorugt annars án verid, hjartad eda lúngun, edur andardrátturin og blódumrásin; enda má madurinn hvorugt missa, því þá deyr hann strax. Hér af má líka sjá, hvad mikid ridur á því, ad loptid, er madur dregur ad sér, sé hreint — enda er eg mjög þrátaladur þar um — því menn géta lifad á litilli og misjafnri fædu um lángann tíma, en einginn lifir til leingdar í óhollu og óhreinu lopti, allrasíst úngbörnin, sem eru lángtum vidkvæmari í því tilliti, enn hinir fullordnu.

Medan fóstrid er í módurlífi, fer ei mikid meira blód til lúngnanna, enn þarf til ad næra þau sjálf, því ekki gétur þad hreinsast þar, eins og hjá því fædda barni, med loptinu í andardrættinum; en þad rennur frá módurinni, eda frá fylgjunni, sem hefir samgaungu vid módurina, í stórri æd, í gégnum naflastreinginn til barnsins, og frá því renna aptur tvær ædar, sem færa þad blód, er barnid ei hefir leingur gagn af, til módurinnar, og eru þessar 3 ædar allar í naflastreingnum. Þarvid samblandast módurinnar og fósturins blód, sem nærir fóstrid, en megnid af því blódi, sem seinna rennur til lúngnanna, hefir nú adra rás; þar eru nl. dyr (foramen ovale) milli hægra og vinstra fordyris á hjartanu, sem eru opnar allt þángad til andardrátturinn byrjar, um hvorjar

blódið í fóstrinu rennur styttsta veg; en þegar barnið fer að anda, lokast þær vanalega með blöðku, sem skopuð er vinstra megin við þetta op eða dyr, og opnast aldrei framar; svo haglega er öllu þessu fyrir komið; og héraf sést, hvað á því ríður, að barnið nái strax að anda, áður enn bundið er um naflastreinginn, því rétt áður, eður í sama vetfángi, á hin nýa fullkomna blóðumrás að byrja. Blóðumrásinni má annars líkja við tvær skógarhríslur með miklu limi, hvorra greinir eru mjög flæktar saman hvor við aðra, og sem báðar hafa sína rót í hjartanu; í gégnum þá, er kémur vinstra megin frá hjartanu, rennur lífæðablóðið, í gégnum slagæðarnar, (arteriæ) út í allar greinir, þ. e. alla líkamans parta, en allstaðar frá draga sig aptur saman blóðæðar (venæ), sem fækka, en verða stærri, því nær sem kémur hjartanu, og seinast falla tvær hægra megin í hjartað; þær færa allt æðablóðið aptur heim til hjartans, því nú er það orðið dökt á lit, og lakara til næringar og fjörsauka, enn meðan það var í slagæðunum, og þarf því umbótar við. Þetta kallast nú **hin meiri blóðumrás** (circulus sangvinis major); en hin, er blóðið fer aptur frá hjartanu hægramegin inn í lúngun, til að hreinsast þar, og sem geingur til á sama hátt, nema blóðið kémur nú hreinsað og umbætt af loptinu, heim aptur vinstra megin að hjartanu, kallast **hin minni blóðumrás** (circulus sangvinis minor), því blóðið fer hér svo stutta leið, til að hreinsast í lúngunum, í stað þess að það í hinni meiri umrás, fer um allann líkamann, til að næra hann. Ennþá er aðgætandi, að því ýngra sem barnið er, því fljótar rennur blóðið um líkamann, og þess tíðar andar það, t. d.

á nýfæddu barni slær slagædin 120 til 130 sinnum á mínútunni, en á fullordnum manni og heilbrygdum, 60 og allt ad 70, á gamalmenninu 50 til 60 sinnum, og á ørvasa og háoldrudum, enn þá sjaldnar; kémur þetta til af því, ad lúngun eru øldúngis óvon ad þenjast sundur af lopti og blódi, og þenjast því ei til fulls i fyrstunni, en eptir því sem þau stækka meir og meir, og fylla betur út brjóstholid, verdur bædi andardrátturinn og ædaslátturinn hægri, en ádur þurfti hann ad vera tídari, medan barnid gat ei dregid ad sér nema litid eitt af lopti i einu; og blódid hlaut ad renna fljótar, medan hvorr andardráttur hreinsadi þad svo litid i lúngunum, enda fylgist hjartans sláttur og andardrátturinn ætíd ad; eins og hvorr madur gétur tekid eptir, ad þegar hann sækir mædi af erfidi eda veikindum, slær hjartad tídar enn vant er, og allt hvad verkar á andardráttinn, verkar strax á hjartad, og þadan á allann líkamann. Af því barnid andar fljótar enn adrir, er þad vidkvæmara enn sá fullordni, og því er hættara vid brádum sjúkdómum, t. a. m. allskonar brunasóttum (Feber) og þesshàttar. Þaraf sjáum vid nýa røksemd fyrir því, hvad mikid ridur á því ad loptid, er barnid dregur ad sér medan þad er veikt fyrir, og gétur einga bjorg sér veitt, sé hreint og mátulega temprad i tilliti til hita og kulda; og einkum er andardrátturinn allra veikastur i fyrstu, þegar hann er ný byrjadur, en þad vardar miklu ad styrkja hann, og þad skédur best med því, ad loptid sé ætid hreint, jafntemprad og þurt. Menn vita mørg dæmi til þess, ad þegar, veik úngdorn hafa verid flutt úr rakasomum húsum, hvar loptid var slæmt, og opt reykur inni, i onnur rúmlegri og þurrari, hvar loptid

bædi var hreint og gott að ollu leiti, hefir þeim opt batnað alleina við það, enda þó þau stundum sýnduſt aðfram komin. Í Englandi flytja menn opt born, sem orðin eru veik, úr stóru stødunum, hvar loptið er óhollt af steinkolaðompum og øðru, út á landsbygðina, hvar loptið ætíð er hreinna, og skiptir opt fljótt um og verða þau albata.

Af því sem nú er sagt sjáum vér, að þrjár mikilvægar umbreytingar koma fram við barnið strax við fæðinguna:

1. **Tilfinníngarnar vekjast,** er áður láu eins og í dái.
2. **Lúngun þenjast sundur,** og andardrátturinn byrjar.
3. **Blóðumrásin umbreytist,** því í stað þess að æðablóðið áður rann frá øðru fordyri hjartans inni hitt, hlitur það nú að fara í gégnum lúngun til að komast að hjartanu aptur vinstra meigin.

Hérvið mætti ennfremur bæta tvennu, sem er nýtt fyrir barnið. Það hefir hingaðtil þeigið allann il af móðurinni, og n æ r í n g u fékk það frá blóði hennar í sitt eigið blóð, svo á maganum og meltingarkraptinum hefir ei fyrr þurft að hálda, fremur enn á lúngunum.

Øll þau dýr, sem hafa heitt blóð, eru jafnheit innan, — þ. e. a. s. þegar þau eru heilbrygd. — Mannsins innvortis hiti er hérumbil 28° Reaumur, eða 35° Centigrad. Þessi innvortis hiti má aldrei minka, því þá er lífið í voða; því þó manni verði kaldt á útlimum, og enda allstaðar utan, er blóðið eingu að síður jafnheitt, en kólni það til muna, er dauðinn vís — svo deya þeir, sem frjósa í hel. — Þessum **líkamans hita viðheld-**

ur andardrátturinn, meltíngarkrapturinn og tilfinníngarkérfid, en þó ridur allra mest á andardrættinum; hvaraf flýtur, ad þegar lúngun fullþroskud, draga frjálslega andann i hreinu lopti, vidhéldst líkamans hiti best. Séu lúngun þar á móti litil og géti ei nægilega þanist út, ellegar loptid er óhreint, gétur innvortis hitinn ekki haldist vid af sjálfu sér án útvortis hjálpar; því þegar kaldara lopt er allt i kringum manninn, er nemur jafnódum nokkud burt af hitanum frá yfirbordi líkamans, þarf hann vel ad haldast vid innan frá, ef allur kroppurinn ei á ad kólna um of; en géti hann ei nógur þadan komid, verdur innan eda utan frá ad sjá um þad, ad líkaminn hafi nægann hita.

Menn sjá i þessu tilliti ydduglega dæmin á hraustum erfidismanni, sem i køldu vedri, enda snoggklæddur, er vid erfidi sitt heitur og sveittur, medan annar, sem er brjóstveikur, eda lasburda á einhvørn hátt, valla gétur haldid i sér hita, nema hann sitji vid eldofn, eda klædi sig mikid skjóllega; sama er ad segja um nýfædt barn; þess andardráttur er veikur og tidur, og þad gétur litla hreifíngu haft, fyrstu tíma lífsins, á móti því er seinna verdur, þegar þad fer ad stálpast; og er þaraf audséd, ad hitans innvortis uppspretta er litil og ónóg hjá því sjálfu.

Sterk matarmelting og kroptug fæda, eykur innvortishitann, eins og veikur magi, og léttvæg eda litil fæda, dregur úr honum; hvorutveggja hid sidara á heima hjá úngbarninu: meltingarkráptur þess er bædi óvanur ad melta og veikur, og má barnid því i fyrstu ekki fá nema ofurlétta fædu, eins og módurmjólkin er; ekki gét-

ur það heldur haft neina hreifingu, er hitar og vermir líkamann; alls þessa vegna er hitinn lángtum minni hjá úngbarninu af þess eigin ramleik, enn hjá fullordnum.

Hin sídast talda orsök til líkamans hita er **verkun tilfinníngarkérfisins**; þegar það er vel vakandi og verkandi, af einhverjum áhrifum, er hitinn meiri, enn þegar það er sofandi edur áhrifalaust; þess vegna verdur manni kaldara, ef madur leggur sig til svefns úti, einúngis i daglegum fötum, svo ad i fróstvedri gétur það ordid daudasvefn; enda þarf madurinn i svefni meiri klædi yfir sig, enn þegar hann er vakandi. Í þessu tilliti hlítur barninu, af sjálfu sér, ad verda kaldara enn þeim eldri, þvi úngbarnid sefur næstum allt af fyrst eptir fædinguna, enda hefir það — ef það er heilbrygdt — litil onnur áhrif á tilfinningarkérfid, enn þau er vidkoma lífsins naudsynlegasta vidurhaldi. En þar allar þær náttúrlegu uppsprettur hins náttúrlega líkama hita eru svo litlar og ófullkomnar hjá barninu, ætladist Skaparinn til ad foreldrarnir skyldu verma það i fyrstu, eptir þvi sem það þyrfti med, enda sjáum vid ad dýrin gjöra það med mikilli umhyggju af náttúrutilfinning sinni. Nýfædd dýr standa optast undir hálsi og kvidi módurinnar, til ad draga ad sér il af henni; og sum láta úngana liggja i krippu sinni, svo þeim ætid sé heitt, og hænan safnar úngunum undir vængi sína, þegar hún óttast fyrir ad þeim verdi kaldt. Það ridur þvi mikid á ad hlýja vel ad úngbörnum, einkum fyrstu mánudina, þángad til andardrátturinn, meltingarkrapturinn og tilfinningarkérfid er toluverdt farid ad stirkjast og magnast; og sé barn ekki fullburda, þegar það fædist, þarf ad verma það þeim mun betur enn

annad fullburda, því það hefir í sjálfu sér enn minna efni til að halda líkamans hita við; í stuttu máli, hvort það úngbarn, sem brestur mikið á að vera náttúrlega heitt, hlýtur strax að deya, ef ei er því fljótar að gjort.

Öllum lifandi skepnum er eptir náttúrulogmálinu svo háttað, að líkamir þeirra við og við þurfa næringar við, það er að skilja: að fá viðbót í efni sitt, svo að þeir eyðist ekki, í stað þess er jafnóðt geingur úr sér og ónýtt er orðið; og þeir þurfa, ekki einúngis að endurnýast, heldur einnig á úngdómsaldrinum, að vaxa og þróast, því nýfædt barn, er hérumbil einn átjándi eða tuttugasti partur af því er það á að verða að vexti og þýngd, þegar það er orðið fullorðinn maður. Þegar barnið er búið að hvíla sig góðann tíma eptir fæðingar umbyltinguna, þvottinn o. s. frv., og hefir sofið stundarkorn, sem það ætíð þá gjörir, ef það er heilbrigdt, vill það fara að sjúga eða nærast, og nú í fyrsta sinni nærist það með munninum, og hlýtur nú sjálft að melta fæðu sína. Barnið gétur þó vel lifað nokkrar klukkustundir eptir fæðinguna næringarlaust, og á því ei að nærast strax; öðru máli gégnir um andardráttinn og blóðumrásina, er aldrei má hætta; en næringarinnar þarf ei við nema nokkrum sinnum á dag, þó þarf barnið hennar lángtum optar við enn sá fullorðni, og því optar sem það er ýngra. Fyrir því er hugað, að eins og lúngun vóru við búin að gégna köllun sinni strax eptir fæðinguna, svo eru og meltingarverkfærin tilbúin, og meltingarkrapturinn, en þótt hann sé lángtum veikari enn síðarmeir. og því er barninu ætluð einhvör hin léttasta fæða, sem til er, sumsé **móðurmjólkin**, og er það sú einasta fæða, sem úngbarninu

er náttúrleg; þýngri fædu þolir þad ekki. Maginn og þarmarnir, sem aldrei hafa haft neitt í sér, nema svart slím, eru og í fyrstu ofurlitlir og mjóir, og því þarf barnid svo opt ad nærast, en ad eins ofur litid í senn. Magans vodva himna er mjog þunn, en hún stirkist smátt og smátt, þángadtil barnid hefir feingid tonnur, enda reynir mest á hana til ad melta fastari og kroptugri fædu; en þar módurmjólkin, sem er svo létt og þunn, og løgud eptir barnins veika meltingarkrapti, þarf mjog litla meltingu, geingur hún bædi fljótt og vel, einkum ef barnid drekkur opt og litid í einu; þarmarnir sjúga í sig meiginid af mjólkinni, og hún verdur ad næringarsaft, og flytst inn í ædablódid, og med því inn í lúngun, og verdur þar ad lifædablódi; en ef barnid drekkur ofmikid í einu, svo ad meltingarkrapturinn hefir ekki vid, er næringarsaftin ei ordin fullmelt, þegar hún kémur í blódid, og leidir þaraf, ad blódid verdur verra enn vera átti; og sama er og, ef barnid fær of þúnga mjólk, sem þad ei gétur melt, því þá fer þad á somu leid, og þó enn verr; því blódid verdur þá slæmt og orsakar bráda sjúkdóma í barninu.

Loptid, sem barnid andar, má líka heita næringarmedal, því þad hreinsar og endurnýar lifsloptid í blódinu, og ridur því mikid á ad þad sé hreint. Þegar barnid er farid ad nærast, þarf líka od tæmast úr líkamanum allt þad, sem frá honum á ad fara, og sem ekki leingur gjorir gagn, en spillir, ef þad er þar leingur enn skyldi; en þetta skédur med þeim náttúrlegu hreinsunum, hvorra verkfæri nú þegar eru tilbúin, og taka ad gégna skyldu sinni.

**Hreinsunarverkfærin** eru fernslags hjá öllum monnum:

1. **Þarmarnir**, sem færa burtu saurindin, og hjálpar hin fyrsta móðurmjólk (broddurinn) þeim einkum til að hreinsa í burtu hið svarta slím, er var í þeim, þegar barnið fæddist, því hún verkar betur hægðir, enn sú mjólk er seinna kémur í brjóstin.
2. **Nýrun**, sem hreinsa þvagið frá blóðinu, sem strax þarf með, þegar barnið fer að drekka hina ysrið þunnu móðurmjólk.
3. **Skinnið**, sem einnig géfur jafnan frá sér toluverða hreinsun, þó ei sé það alltént sviti. Menn vita að skirtur verða fljótt óhreinar, enda án þess maður svitni, og er það allt af hreinsun frá skinninu, og þurfa menn því opt að skipta um nærfot, því annars situr megnið af þessum óhreinindum í fötunum, og á skinninu, og orsaka marga sjúkdóma, t. a. m. kláða, krefðu og allrahánda útslátt; einkum ríður á að halda skinninu og nærfotunum hreinum á úngbornum, og því þarf að skipta um skirtu á þeim á hvorjum degi fyrstu vikurnar, og leingi frameptir.
4. **Lúngun**, sem og vinna að hreinsuninni; því þegar maður andar frá sér í frosti, sést eins og reykjargufa koma fram úr manni, er það mest kolasýra með vatnsdompum, sem kémur frá blóðinu, og onnur óhreinindi; svo má og finna, að sumir menn eru mjog andrammir, og er það af slæmum dampa, er kemur frá lúngunum.

Það er því auðskilið, hvað óhollt það muni vera þegar margir menn sitja inni í litlu húsi, sem eingann opinn

loptadgáng hefir, því bædi skémmist loptid og eydist af andardrættinum, og líka, þar sem heitt er inni, af dompum frá skinninu, og hafa menn mørg dæmi til þess, ad fólk hefir dáid eins og af pest eda drepsótt, hópum saman í fángelsum, hvar ofmargir hafa setid saman í litlu lókudu rúmi. Í heitu og þurru lopti géfur bædi skinnid og lúngun mesta dampa frá sér, og stundum um of, svo ad mann þyrstir og verdur þurrt í munni; en í rakafullu lopti hreinsast minnst og allt oslitid frá hvorutveggju, enda eru rakafull hús, yfrid óholl øllum mønnum, en banvæn fyrir úngbørnin; því loptid er ætíd óhollt í slíkum húsakinnum, en barninu ridur fyrst og mest af øllu á, ad vera í hreinu, þurru og ætíd mátulega hlýju lopti; láti madur þad þar á móti á þann stad, hvar kalpt eda rakafullt lopt er fyrir, minkar strax um of hreinsunin í gégnum lúngun og skinnid, úr hvorju náttúran reynir ad bæta, med því ad auka hreinsunina frá þørmunum, og þá fær barnid nidurgáng, og jafnvægid milli líkamans parta raskast. Sé nú barnid veikt fyrir, og ei tekst strax í tíma ad leida aptur hreinsunina ad skinninu, tærist barnid af nidurgángi, og gétur útúr því dáid. Þad ridur því mikid á, ad hvør hreinsun fyrir sig gángi vel og reglulega; allir vita, ad þad ollir brádum dauda, ef saurinn og þvagid hreinsast ei burt úr líkamanum, en allt ad einu fer, ef lúngun og skinnid géta ei hreinsast, og kémur þad brádum fram á barninu, en margir þekkja ei hvaraf slík veikindi koma, ad minnsta kosti ei einsvel, og þvagteppu og hardlífi, því allir verda þess strax varir, ef þær hreinsanir hverfa, og þess vegna deya mørg úngbørn, án þess madur viti nokkurntíma hvør uppruna orsøkin sé til

dauda þeirra, t. d. ef loptid, sem barnid andar, er ei svo hreint, ad kolasýru damparnir géti hreinsast til hlýtar úr lúngunum med andardrættinum, þá verdur blódid óhæfilegt til ad næra líkamann; og med tímanum, seint eda snemma — bædi eptir því sem mismunurinn er mikill frá því er vera átti, og eptir því sem barnid er hraust fyrir — kémur sýking og óregla í blódid, svo lífid optlega er í vedi. Sama er ad segja um skinnhreinsunina; sé hún ei daglega þvegin af skinninu, eda óhrein föt séu næst því, og óhreinindin þannig liggi leingur enn vera skyldi á skinninu, eda vid þad, géta þeir dampar ekki komid út frá því er vera ber, og getur þad ordid ad banvænu eitri, enda fyrir fullordna, hvad þá heldur fyrir úngbarnid.

Öll þau líkamans náttúrustörf, er eg nú hefi talid, eru sameiginleg mönnum og dýrum — ad minnsta kosti öllum júgurdýrunum — mida þau öll til þess, ad vidhalda lífinu, næra líkamann og hreinsa hann, og halda honum vid í öllu tilliti, samkvæmt náttúrunnar edli; enda gánga þau flest svo af sjálfum sér, ad vid naumast höfum medvitund um þau, því á medan vid sofum, slær hjartad, og andardrátturinn geingur reglulega, af náttúrunnar edli, án þess vid getum med viljanum hagad því ödruvísi. Þad er ad vísu nokkud undir vorum vilja komid, hvenær vid nærumst á því er gégnum munninn geingur, og hvenær vid köstum hinum tveimur hreinsunum frá okkur, en lúngnahreinsunin og skinnhreinsunin fer fram án vorrar medvitundar. Eg vil kalla öll þessi nú töldu störf: **Líkamans nærandi störf**, og ridur mest á ad þau gángi í allri reglu og ordu á úngbarns aldrinum, medan barnid er ómálga.

Nú vil eg litid eitt minnast á skilningarvitanna störf, sem dýrunum og manninum ad visu eru sameiginleg ad nokkru leiti, en hvari hann þó vegna skinseminnar, hefir svo mikla yfirburdi, ad hann er miklu fullkomnari og ædri, enn enda þau fullkomnustu dýr. Þessi störf mida ei einúngis til ad halda lífinu vid, og vardveita þad, heldur og til ad sýna i hvorjum tilgángi Skaparinn hafi gefid manninum og dýrunum lífid, og til hvors eigi ad hagnýta þad. Heilinn er skinseminnar, andans eda sálarinnar adal-verkfæri, hvadan tilfinningartaugar gánga bædi til allra skilningarvitanna, og til allra hræringarvodvanna, sem eptir hennar vilja hræra beinin, og sjálfa sig, til hvors er viljinn vill; sérhvort skilningarvit tekur og á móti vissum áhrifum, til ad minda eyrad á móti hljódinu, augad á móti ljósinu, og leidir, eins og i speigli, inn i heilann, allt hvad fyrir þad ber, o. s. frv.; somuleidis bera tilfinningartaugarnar, tilfinninguna frá heilanum um allann líkamann, og aptur til baka um ástandid i sérhvorjum hluta hans.

Med heilans og skilningarvitanna stirk fær barnid medvitund um tilveru sina, og um þá, sem jafnan eru hjá þvi, til þess ad hlynna ad þvi, eptir þvi sem stundir lida fram, og þad af vananum lærir ad þekkja þá. Skilningarvitin vóru oll tilbúin fyrir fædinguna, en þá ollu óvon, og verdur þvi barnid fyrst med laungum tíma, og laungum vana, ad læra ad gjöra greinarmun á þvi sem fyrir þau ber; ad vilja fá þad, er þad lángar til, og fordast þad, er þad óttast, eptir þvi sem allir hræringarvodvarnir, beinin og allt tilfinningarkérfid, stirkist og þróast. Loks-

ins vekst vid vanann, tilfinning um hvad sómasamlegt sé, rétt og rángt.

Hvad skilníngarvitunum vidvíkur, þá eru sum af dýr-unum, er hafa þau lángtum skarpari, til ad minda: sjón og lykt; en þad getur ekki komid i nokkurn samjöfnud vid mannsins mikla hugvit og sálargáfur, sem lypta honum svo lángt yfir dýrin. Eg gat þess ádur, ad heilinn, eink-um ad ofan og framan, ekki væri ordinn eins fullmindad-ur um fædingartímann, sem hinir adrir líkamans partar, en þad er af því, ad barninu nýfæddu gæti litid gagnad ad hugsa mikid, medan þad ekkért getur bjargad sér, því þad mætti verda til mikilla leidinda fyrir þad; en eptir því sem skilníngarvitin æfast meir og meir, fullkomnast og heilans bygging, svo mørgum árum skiptir, og verdur því betra verkfæri fyrir sálina, til ad muna, igrunda, hugsa, yfirvega, uppgotva og dæma, sem barnid meir nálgast fullordins aldurinn. Þannig er þad eiginlega sálin, og hennar verkfæri: heilinn, sem adskilur manninn frá dýrinu, en bein og vodva o. s. frv., þurfti hann til þess ad géta verkad á allt i kringum sig; enda er allt i skøpunarverkinu vitni um Guds almætti og visdóm, og þó ekkért fremur, enn sú fullkomnun, sem er i skapnadi hvørs dýrakyns fyrir sig; og þeir eiginlegleikar, tilhneig-ingar og kraptar, sem eru einkénni hvørs dýrakyns.

Hvad þeim hræringum vidvíkur, sem eru i viljans valdi, og hvartil tilfinningartaugar, vødvar, sinar og bein mida, mátti barnid ei hafa þær toluverdar, medan þad ei hafdi skin á til hvørs þad átti ad hreifa sig, og gat opt farid sér ad voda, enda getur þad ei haft, adra hreifingu enn sprikla litid eitt med útlimunum, því

beinin eru öll óhörðnuð, meir og óstirk, og víða hvar er enn þá brjóst í þeim, er seinna verður að beini; vöðvarnir eru einnig linir og óstirkir. Af því beinin eru svo lítt hörðnuð, verður að fara ofur varlega með þau, og hvörki láta barnið sitja upprétt, né láta það standa ofsnemma, því beinin valda ei þúnga kroppsins, og er því hætt við, að þau bogni við það og aflagist; í stuttu máli: það þarf að fara með barnið, sem er svo veikburða þegar það fæðist, bæði á sál og líkama, varlega og gætilega í öllu tilliti. Það sem nú var sagt um það, hvað líkami barnsins væri veikur fyrir, má einnig segja um skilningarvitin hjá barninu; að vísu sér það og heyrir, en það getur einga hugmind gjört sér um neitt af öllu því, sem fyrir það ber; en í skinninu hefir það viðkvæma tilfinning, sem af Skaparanum er ætluð til þess, að það skyldi verða órólegt og hljóða upp yfir sig, ef því yrði kaldt, eða það væri vott, o. s. frv. Smekkurinn hjá barninu vyrðist snemma að verða fullkominn, og fyrri, enn hin önnur skilningarvit, að ná þroska, því barnið gjörir fljótast greinarmun á, hvað því smakkar þægilega eður óþægilega, enda þarf barnið smekksins snemma við; hann er og það skilningarvit, er optast varir leingst hjá gamalmenninu, þegar öll hin eru farin að dofna af ellinni; þar á móti er auga barnsins svo veikt og óvant birtunni, að það má ei horfa í ljós nærri sér; vita menn dæmi til að úngbörn, sem hafa horft í ofbirtu, hafa af því orðið blind; líka hafa börn orðið heyrnarlaus af miklum hvellum, skotum og þesskáttar, og því ber að varast, að hafa mjög mikinn hávaða hvar nýfædt barn er fyrir, svo og, að bera ljós rétt að augum þeirra,

eda láta sterka lykt leggja ad nösum þeirra, því þarvid verdur enum veiku skilningarvitum ofbodid, og þau týna, ef til vill, krapti sínum.

Eptir því sem bædi líkaminu stirkist og skilningarvitin æfast, heilinn vex og verdur fastari, og heldur i sér minningu um útvortis áhrif, í sama hlutfalli vaxa og allir sálarkraptarnir; en þar eg i þessu riti ekki ætla ad tala um annad enn úngbörnin, og hvad þau áhrærir, uns þau komast á fót, og þó einkanlega um hina líkamlegu medferd á þeim, svo sleppi eg hér öllu ödru enn því, sem þar ad hnígur.

## Fjórdi Kapítuli.

### Um medferd á barninu strax eptir fædínguna, vidvíkjandi loptinu, lauginni, klædnadinum.

Þess er ádur gétid, ad barnid þarf fyrst af öllu loptsins med til ad draga andann, og ætti því nákvæmlega ad gæta þess, ad loptid væri hreint og mátulega hlýtt hvar nýfædd börn eru inni, og enda fram eptir öllum aldri; því enn meira ridur hvörjum manni á loptinu, enn á fædunni, enn þó allra mest á úngbarnsaldrinum. Loptid dregur madur ad sér hvört augnablik, og gétur aldrei án þess verid, enda skémmist heilsan fljótt, ef þad er í einhvörn máta slæmt; en á misjafnri og léttri fædu gétur madur þó leingi lifad, og haldid nokkurnveigin heilsu. Þar á mót er þad fullreynt og sannad af læknum, ad óhreint, rakafullt og kaldt lopt, orsakar margslags veiki á börnunum, bædi bráda (morbi acuti) og lángvarandi (morbi cronici), til ad minda krampa, innantökur, upp-

kost, kyrtlaveiki, innanmein og fl. er fjoldi manna deyr af; en þar sem loptid er þurt og mátulega hlýtt, eptir barnsins edli og aldri, eru oll þau veikindi lángtum skjaldgæfari, og þar deya og lángtum færri born ysirhofud.

Þad er ad visu satt, ad húsakinni eru vida hvar hér á landi bædi litil og aumleg, og verdur þvi ad tjalda sem til er; en eg held þad ei ad sidur vel til hlida, ad minnast stuttlega á þad sem enskir læknar segja i þvi tilliti hollast fyrir bornin; þeir sem hafa góþ og rúmleg húsakinni, géta fært sér margt af þvi i nit, og hinir sem midur eru farnir, géta þó alltend notad eitthvad af þvi, ad minnsta kosti sjá þeir hvornig best mætti fara, þó þeir ei géti komid þvi vid, vegna húsakinnanna, og ad visu géta allir látid loptid vera hreint hjá sér, þvi ekki þarf annad, enn ad láta einhvorja vindholu vera á húsinn, hvar fólkid, og einkum úngborn eru inni, og má þá eptir vedurlagi, annadhvort láta hana vera alltaf opna — sem væri best i ollum moldarhúsum, hvar einginn eda litill vindsúgur er — eda þá ad minnsta kosti taka hana opna fleyrum sinnum á dag.

I þessu tilliti segja enskir læknar, ad born þrifist best, og deyi skjaldnast, i þeim húsum, sem eru rúmleg, og ekki ofskipud fólki eptir stærdinni; sem eru þurr, rakalaus, standa á þurrlendum, háum og hordum grundvelli, og hvar loptinn inni fyrir, ætid er haldid hreinu og reykjarlausu. Fyrst eptir fædinguna ridur á, ad þar sé vel hlýtt inni, hvar barnid er; en eptir þvi sem barnid verdur nokkurra mánada gamallt, og hægra er ad halda þvi heitu, þarf hitinn ei ad vera ollu meiri enn fullordnum til hæfis; þvi fjarska mikill hiti er barninu lika óhollur. Af tvennu illu er

lángtum betra ad vindsúgur sé i húsinu, enn raki eda reykur, sé þess ad eins gætt, ad vindsúginn ei leggi rétt á barnid, sem hægt er ad fordast, med því ad tjalda fyrir; því hvar nokkur vindsúgur er, er þó loptid ætid hreinna, enn hvar rakinn er, en þad gétur ordid ofkaldt ef hann er mikill, enda er þar líka ofkaldt, hvar raki er mikill, og rakinn er því lakari fyrir barnid, sem hann gjörir allt loptid í húsinu óhollt, og þad vardar þó mestu; en sé loptid hreint, þótt þad sé nokkud kaldt, má klæda úngbarnid því skjóllegar, og halda því heitu med rúmfotum. Há hús eru betri enn lág, og betra lopt í þeim uppi enn nidri, því hid óhreina og þúnga lopt dregur sig ætid nidur ad jordunni. Bjørt hús eru hollari enn dimm og mjøg skuggaleg, — þó þarf ei ad hafa mjøg bjart barnsins vegna fyrstu vikurnar, því þad þolir ei mikla birtu nýfædt, eins og ádur er umgétid; en þegar nokkud frálidur, hafa bornin gott af því, ad húsid sé vel bjart, og segir Dr. Combe, ad þau børn verdi gladlyndari og fjorugri, sem alist upp í bjørtum húsum, hvar fagurt er útsjónar, og gluggar blasa á móti sólu, enn hin, er alast upp í dimmum húsakinnum og skuggalegum, enda þó loptid sé þar nokkurnveiginn hreint. Svo er og um oll dýr og jurtir, ad þau þrifast og dafna miklu betur þegar þau vid og vid njóta sólarljóssins, því sólin lifgar alla náttúruna.

Menn hafa nægar roksemdir í hondum, fyrir því, hvad loptid verkar á bornin og barnadaudann, í því atridi, ad miklu fleiri born deya í mjog stórum borgum erlendis, enn, eptir tiltolu, á landsbygdinni, til ad minda í London, sem er meir enn hálf þingmannaleid á leingd

og nær því eins breið, og telur yfir tvær milliónir innbúa; í borg þessari er loptið jafnan þúngt og óhollt, og fullt með gufu af steinkolareyk frá ennm mörgu reykháfum og gufusmiðjum; enda deya þar lángtum fleiri börn á únga aldri, enn á landsbygðinni, einkum á miðju og norðanverðu Englandi, sem er strjálbygðast, því þar eru meðal 100 dauðra, ekki nema 18 born á fyrsta ári, en í London eru hérumbil 30, af 100 dánum, úngborn á fyrsta ári, og er það meir enn þriðjúngi meira af úngbörnum í þessari miklu borg. Eins, eða miður er ástadt í öðrum handyðna- og verksmiðju-stöðum á Englandi, hvar mikið er af gufusmiðjum, t. a. m. í Manchester, Stafford, Liverpool og Newcastle, hvar strætin opt eru svo full af gufu, blandaðri með steinkolareyk, að ekki hjálpar að loka gluggunum upp, til að bæta loptið inni fyrir. Ekki er þvílíku um að kénna hjá okkur Íslendingum; loptið er hèr ágætt, eins og í öllum strjálbygðum fjalllöndum hlýtur að vera, svo ef menn vildu að eins nákvæmlega gæta þess, að loptið, sem er úti fyrir, feingi til hlýtar að blandast saman við loptið í íbúðarhúsunum, og þess væri jafnframt gætt, að aldrei væri reykur eða önnur óhollusta inni í baðstofunum, eða hvar börn eru inni, þyrftu þau ekki að deya hjá okkur af slæmu lopti. Margir munu máské vilja svara því, að börnin hafi áður lifað, þó öll þessi varkárni og umhyggja hafi ei verið viðhöfð, hvað loptið áhrærir. Það er satt, að nokkur hafa lifað, en þó hefðu, ef til vill, lángtum fleiri lifað, hefði alls þessa verið gætt; eður hvað veldur því, að hér deya lángtum fleiri úngborn enn í nokkru öðru, jafn strjálbygðu landi? Munu þau ei hér, eins og í öðrum löndum, géta

veikst og dáid af óhollu lopti ásamt odrir fleiru? Þeir veikari láta fyrr undan en hinir hraustu, og svo er um úngbornin; þau sem veik eru fyrir, deya af því, sem þau hraustari géta stadid af sér, og skrimta af, og er það því min ætlun, ad svo miklu leiti sem medferdin er orsök i, ad fleiri born deya hér á landi enn annarstadar, ad það sé sérilagi ad kénna óhollu lopti í slæmum húsakinnum, og óhentugri fædu. Því má nærri géta, ad loptid muni vera óhreinna og óhollara i lágum moldarhúsum, sem vidast eru hér á landi, enn i háum og rúmlegum stein- eda timbur-húsum, sem næstum allar þjódir i Nordurálfunni búa i, nema vid Islendingar; en þar þessu ekki verdur bót rádin, verdum vid þess meira athygli vid ad hafa, sem húsakinnin eru lakari, ad loptid sé svo hreint i þeim sem mögulegt er vid ad gjora. Það legst stálpudum börnum og fullordnum opt til, ad þau eru skjaldan stödugt inni um daga, heldur opt úti vid, undir berum himni, og þar er loptid ætid hreint; en úngbornin géta ei notid þess, því þau koma því nær aldrei út. Það er því gott rád, hvar húsakinni eru slæm, ad bera úngbornin, svo opt sem vedur leyfir, út i hreina loptid litla stund i einu, svo þau ad minnsta kosti einstakasinnum, nái ad draga ad sér hreint lopt og hollt, og hefi eg verid sjónarvottur ad því, ad framfararlitil börn hafa vid það ordid hressari og lislegri, og það því betur sem það hefir verid optar gjort; einasta ber þess ad gæta, ad þau séu vel klædd, svo ekki komi kuldi ad þeim.

Það einasta land, hvar, ad minni vitund, barnadaudinn er vidlika mikill og hér á landi, er Grænland,

enda eru Grænlendíngar þeir einustu, er hafa enn þá lakari húsakinni enn vid Islendíngar; þvi þeirra vetrarhús eru øll grafin nidur i jordina, og allann veturinn er þar reykur, svæla og óhreinindi, enda deyr fjøldamargt af þeim børnum, er þar fædast á veturnar; en þau er fædast á sumrum, lifa flest øll — þvi þá búa Grænlendníngar i tjøldum — ad minnsta kosti lifa þau til næsta vetrar. Hjá þeim væri líklega barnadaudinn enn meiri enn hjá okkur, ef ekki væri sú bót i máli, ad allar mædur hafa þar børn sín á brjósti, þessvegna lifa lángtum fleiri, enn ef þad ekki væri. Þannig er óhreint lopt og líklega óþrifnadur, adal orsøk til úngbarnadaudans þar, en ekki fæda þeirra, sem er gód og eptir náttúrunnar edli, ad minnsta kosti medan þau eru á brjóstinu.

Eg ætla mér ekki á þessum stad, ad tala um fædingarhjálpina, eda medferd naflastreingsins vid fædinguna, þvi allt, sem þar ad hnigur, á ad vera þeim kunnugt er sitja yfir konunni*), og eru optar enn einusinni i

*) Vegna þeirra er óvanir kynnu ad vera nærkonu-størfum, vil eg geta þess, ad hljódi barnid ei strax sem þad er fædt, skal adgæta hvørt þad er følt i andliti, eda raudt og þrútid; sé þad følt og ædasláttur i naflastreingnum, skal ei flýta sér ad þvi ad skilja á milli; en sé barnid þarámóti þrútid og raudt i framan, má strax skilja á milli, og láta blæda svosem einn matspón úr naflastreing barnsins, ádur enn bundid er um hann, er skal gjøra tvo þumlúnga frá nafla barnsins. Séu ei fullkomin rotunnarmerki á barninu, ber ad leggja alla alúd á ad lífga þad vid, med þvi fyrst ad hrista þad til, slá þad á endann med fløtum lófa, og þad fljótasta verdur, leggja þad i volgt laugarvatn, láta smátt og smátt kaldt vatn drjúpa á brjóst þess, gnúa þad undir iljar

voru máli géfnar á prent reglur um þad efni, þeim til leidarvísis; hér rædir einasta um medferdina á barninu, eptir ad þad er fædt.

Af því loptid altént er kaldara enn þad sem ádur var í kríngum barnid, medan þad var í módurlífi, verdur strax sem búid er ad skilja á milli, og barnid er farid ad anda, ad sveipa volgum dúk utanum þad, og annadhvort láta þad liggja í volgri kjöltu, edur á ödrum hlýum stad, en þó ekki ofnærri heitum stofu-ofnum, hvar svo er húsum háttad. — Sé barnid líflegt, má brádum lauga þad — þegar búid er ad hagræda módurinni — þad er ad skilja, þvo í burtu hid seiga slím, er allur kroppur barnsins er þakinn med, og sem átti ad varðveita skinnid á því, medan þad lá í módurlífi; sé þetta slím ei vandlega af þvegid, þegar barnid er komid í loptid, má þad gjöra mikinn skada, því þad þornar þá og verdur ad skorpu, er hindrar skinnhreinsunina á barninu.

Best er ad **laugarkérid** sé aflángt trétrog, rúmlega svo lángt ad innan, sem barnid er á leingd, og grynnra í annann endann, svo andlitid standi uppúr vatninu; annars þarf ad halda stödugt med hendinni undir höfud

---

og um brjóst med mjúkum bursta (eda síu), smátaka þad uppúr vatninu, og hrista þad, en varast jafnframt ad láta höfudid dingla, og halda því gætilega undir hnakkann á barninu; hreinsa slímid úr munninum og hálsinum med fíngrinum, og kitla barnid med fjödur í hálsinum. Heitu vatni verdur einnig ad smábæta í laugartrogid, eptir því sem vatnid kólnar. Ei má þreytast á þessu margar klukkustundir, því opt lifnar barnid loksins vid, ef mikil þolinmædi og umhyggja er vid höfd, sem ætíd þarf og á ad vera í þessu efni.

barnsins, en það á að liggja endilángt í lauginni, því þannig liggur það hægast.

Laugarvatnið á að vera blóðvolgt þ. e. jafnheitt og maðurinn er innan — 28° á Reaumurs hitamælir — sé það miklum mun kaldara eða heitara, skaðar hvorntveggja barnið.

Vatnið í laugarkérinn á að fljóta yfir allann kroppinn á barninu, nema andlitið, því bæði verður barninu þá hvorgi ofkaldt, og það fer líkt um það og áður, meðan það lá í volgu móðurvatninu.

Nú skal með hreinum svampi strjúka vandlega allt slím og óhreinindi af líkamanum, en þó svo hægt og mjúklega, að skinnið hvorgi roðni. Skjaldan þarf sápu eða nokkuð annað enn hreint vatn, og mjúkann svamp eða njarðarvött til að hreinsa barnið með. Vandlegast þarf að þvo barnið bak við eyrun, undir holhöndunum og í krikunum, hvar slíminu opt hættir við að verða eptir, ef ei er því vandlegar athugað; en allra mesta gætni þarf þó að hafa á, að þvo augnalokin, og ætti að brúka til þess annann, lítinn og hreinann svamp, sem ekki hefði verið brúkaður til þess að þvo kroppinn með. Það er alkunnugt að börn, fárra daga gömul, fá opt augnveiki með þeim hætti, að augnalokin bólgna svo mikið, að barnið gétur ei lokið þeim upp, og loksins rennur grostur og vilsa út á milli augnalokanna, og gétur það orðið hættulegt, bæði fyrir sjón og líf. Dr. Combe segir: að þessi augnveiki komi af því, að annaðhvort hafi augun á barninu verið illa þvegin í fyrstu, eður að óhreinindi hafi komist inn í þau úr svampinum; eða laugavatnið, er óhreint er orðið, hafi runnið inn í

augun, og þarf því vandlega að forðast, að láta laugar-vatnið fara í augun, sem eru það viðkvæmasta á öllum líkamanum, en þvo þau sérílagi úr hreinu og volgu vatni með öðrum og hreinum svampi, en ekki úr sama vatninu, né með sama svampi, og brúkað er í laugarkérinu, því hvorutveggja óhreinkast strax, þegar farið er að þvo barnið, svo það verður óheilnæmt fyrir augun. Þegar búið er vandlega að þvo barnið, má taka það upp úr lauginni, og leggja ofaná kodda, sem ei má vera ofharður, en yfir hann sé breiddur volgur dúkur. Má koddinn liggja annaðhvört á borði eða knjám barnfóstrunnar; síðan sé barnið allt þerrað, og núddað lauslega með volgum rinni; örvar það ilinn í skinninu, en ei má það leingi bert vera, svo ei komi kæling að því.

Þegar þannig er búið að þvo og þerra barnið, má binda um það nablabindið, sem á að vera **mjúkt, þunnt og lipurt**, og rúmlega tveggja þumlúnga breidt, en minna riður á hvört það er af lérepti, bómullar- eður smágérðum ullar-vefnaði, en yfir sjálfann nablann skal leggja hreina lérepts-rín, smurða með feiti, sem sé hrein, og hvorki súr né soltuð. Bindið á að vera svo lángt, að það nái rúmlega tvisvar yfir um barnið. Það miðar bæði til þess að halda hita í barninu, búa um nablann, og verja því, að inniblin þrýstist út í nablagatið, þegar barnið hljóðar, eður ef það er ógætilega tekið upp; en varast skyldi að binda nablabindið mjög fast — því það getur gjört barninu mikinn skaða — heldur á það að eins að styðja lauslega að nablanum, en sé það fastar bundið enn svo, hindrar það andardráttinn, því þyndin (diaphragma) geingur upp og niður við.

hvorn andardrátt, og þegar barnid søgar ad sér andann, búngar hún nidur í lífid, og þá þarf allur kvidurinn ad géta þanist út, og má ekki hindra þad, því ella verdur andardrátturinn stuttur, ónógur og ørdugur, eins og fullordnir géta fundid, ef þeir reira fotin ad sér yfirum nablann, en børnin þola þó lángtum sídur alla hindrun í andardrættinum, og verkar hún strax skadlega á blódumrásina. Nablabindid ætti því aldrei ad vera bundid fastara enn svo, ad þad smokkist ekki nidur af lífinu.

Ad því búnu má sveipa utanum barnid stórum, heitum og hreinum ullardúk, og leggja þad í velgju, annadhvort hjá módurinni, ef hún er frísk eptir hætti, edur þá í annad volgt rúm; því eptir alla þessa miklu hreifingu og umbiltingu, þarf barnid ad sofa nokkrar klukkustundir, og liggur því ei á ad klæda þad, fyrri enn þad vaknar aptur, þó þad enda meigi klæda barnid strax, sé þad vel líflegt; en betra þykir mér ad láta þad hvíla sig fyrst, því nýfædd børn þurfa næstum alltaf ad sofa fyrstu vikurnar, líkt og ádur enn þau fæddust, því í módurlífi munu þau alltaf sofa, og þó þau hreifi sig stundum, mun þad vera sem í svefni. . . . . .

Hvad føtum úngbarna vidvíkur, þá ríduk mest á ad þau séu øll **létt og mjúk, heit og nógu víd,** og svo løgud, ad fljótlegt sé ad klæda barnid og afklæda. Þau meiga hvorki þreyngja ad brjóstinu né lífinu, heldur vera svo lidug og rúmleg, ad barnid géti frjálslega hrært alla limi og øll lidamót, og ad ødru leiti vera svo skjólgód — eptir því sem árstíma, vedráttufari og hlýindum í badstofunni er varid — ad barninu ætíd sé mátulega og nógu heitt. Létt og mjúk verda fotin ad vera, því barns-

ins veiki og fíni líkami þolir hvorki þúng né stirð eða hörð föt. Allt hvað mjög þvíngar barnið, þreyngir að því, eða hindrar limanna hreifíngu, orsakar barninu mikið illt, og ætti því ætíð vel að varast það. Það hefir áður verið siður hér á landi, og er það máské sumstaðar enn nú, að reifa börnin líkt og gjört er stundum við vitstola menn, og er það undarleg harðýðgi og fásinna. að binda svo börnin, að þau geti hvorki hreift höndur né fætur; hvorr sem er kominn til vits og ára, gétur því nærri, hvað hann mundi taka út, ef hann væri tekinn og sívafinn, svo að hann hvorki gæti hreift legg eða lið; og þó er meðferð þessi lángtum óhollari fyrir barnið, enn þó fullorðinn maður sitji í járnfjötrum, því hann gétur þó nokkuð hreift limina; og er það því óheyrilegt, að fara með saklaus úngbörn lakar enn farið er með óbótamenn og illvirkja.

Klæðnaður úngbarna er í flestum siðuðum löndum svipaður, nema hvað sumir bera meira í hann enn sumir. Fyrst er barnið klædt í léreptsskirtu, sem er tölúverðt víðari enn vera þarf eptir vexti barnsins, svo fljótlega og hæglega megi smeygja barninu úr henni og í. Utanyfir skyrtuna er barnið klædt í treyu, viða að því skapi; ríður það á litlu, hvort treyan er úr ullar- eður bómullar-dúk, því optastnær er hún fóðruð með lérepti, — en hnýtt er hún saman með þrem sögum á bakinu. — Bæði skyrtan og treyan eiga að vera svo síðar, að þær nái nokkuð niður fyrir naflann. Um lærin og fæturnar á barninu, er leingi frameptir sveipað lérepts-rinum, sem skipta þarf um jafnóðum og þær vökna, svo ei taki af barninu, eða það fái skinnroða. Að þessu búnu á að

sveipa barnid med dúki (er á sunnlenzku kallast: svif), og er þad mest áridandi sat, til þess ad halda vid hitanum á holinu, og öllum nidurkropp úngbarnsins. Svifid á ætid ad vera úr einhvorju ullartagi, og er best ad búa þad til úr þykku og skjólgódu vadmáli, en á litnum ridur ekki. Svifid á ad vera hérumbil hálf önnur alin á leingd, og ein á breidd, og er því sveipad utanum barnid, med þeim hætti, ad leingdin á svifinu er látin vera upp og nidur, og ödrum endanum svo vafid utanum barnid, rétt fyrir nedan handleggina, og yfir um brjóstid, — handleggirnir eiga sumsé ad vera lausir fyrir ofan svifid — og svo nidureptir; og þar barnid hvorgi nærri er alin ummáls á þverveiginu, á svifid ætid ad gánga á misvixl framaná brjóstinu og lifinu, svo þad sé tvofaldt framaná holinu. Nú geingur mikid af leingdinni nidur fyrir fætur barnsins, þad leggur barnfóstra eins saman á vixl, og brýtur svo uppá þad aptur á bak, og lætur endann ná upp á bakid á barninu; sídan vefur hún (barnfóstran) reifalinda utanum svifid og um allt holid á barninu, og má ekki binda hann fastara enn svo, ad hann ad eins haldi svifinu saman utanum barnid. Hér af er audrádid, ad handleggirnir eru látnir algjörlega lausir, fyrir ofan svifid, svo ad barnid getur rétt fæturnar til og frá nedantil í svifinu eins og í poka. Verdi barninu kaldt á fótum, sem opt er, er eg vanur ad ráda til ad leggja volga ull vid, og utanum fæturnar, og liggja þá börnin opt rólega, nema hvad þau stundum sprikla fótunum innanum volga ullina, er þau kunna svo vel vid.

Höfudfat úngbarna ætti aldrei ad vera mjög hlýtt,

því við það stigur þeim blóðið um of til höfuðsins; það er því nóg að þau hafi þunna húfu, úr lérepti, eða bómullardúk, sem sé vel rúm og létt á höfðinu, en stórum klút og tvöföldum, á að vefja um höfuð þeim, herðar og handleggi, en láta hann vera opinn að framan fyrir andlitinu, og þarf hvörgi að binda hann. **Aðalatriðin um klæðnað barnsins eru þannig þessi: að því sé allstaðar nógu heitt, en hvörgi fast bundið eða vafið um það.** Tituprjóna ætti aldrei að brúka í úngbarnafötum — því það hefir hlótnast illt af því — heldur halda fötunum saman með stögum, og laust lögðum linðum. Svifið ættu menn að brúka fyrstu tvo eða þrjá mánuðina, en fleiri enn eitt þarf að hafa, til að géta skipt um, því opt þarf að þvo og þurka það.

Þegar barnið er komið úr svifi — sumir leggja það af á daginn, en brúka það enn þá margar vikur á næturnar, því bæði er þá hægra að fara með börnin, og það kémur síður kuldi eða kjæla að þeim þegar upp eru tekin — riður mikið á að klæða börnin strax í ullarsokka, til að halda fótunum heitum, því úngbarninu er líkt háttað og gamalmenninu, að fótakuldi sækir á hvörutveggi, en meðan svifið var brúkað, var með því hægt að halda fótunum heitum, enda er það sá náttúrlegasti klæðnaður á barninu fyrstu mánuðina. Þegar hætt er að svifa barnið, verður og í þess stað að klæða það í eitthvört það fat, hvörju nafni sem það heitir, sem sé nógu síðt, og er best að láta það ná niður fyrir fæturnar, meðan barnið fer hvörki að standa né gánga, því það á að skýla holinu, lærunum og fótunum, líkt og svifið áður gjörði, og á það að vera bæði hlýtt,

mjúkt og létt; því séu fotin á barninu ætíð nógu heit, rúmleg, létt, og mjúk, og þeim sé ætíð haldið þurrum og hreinum, ridur hvorki mikid á snidi þeirra, né á því, hvad í þeim er, hvort heldur ull, hor eda bómull; þó eru ullarfot skjólbest og hlýust ef kaldt er. Prjónafot eru ad því leiti lakari fyrir barnid, enn úr vefnadi, ad þau, þó í fyrstu séu nógu rúmleg, hlaupa saman vid hinn mikla þvott, er hafa þarf á fatnadi úngbarna, svo slík fot verda loksins bædi ofþraung og ofstutt; og er hvorutveggja illt og má ekki vera, því barnid hefir skada af því.

Séu bornin ekki fullburda, eda litil og vesæl, sækir jafnan mikill kuldi á þau; má þá vel hafa ullarskyrtur næst þeim, eda þó enn heldur, vefja þau í volgri ull, sem er heitt yfir eldi í þurrum potti, og logd svo utanum barnid allstadar innanundir svifinu. Þó verdur ad varast, ad ei komi svidalykt af ullinni, því þad þolir barnid ekki. Med þessu móti hefir mér tekist ad halda hita í nokkrum bornum, er líflitil vóru, eda ofsnemma borin, og því sikold; og lifundu þau med slíkri medferd vid, dag frá degi, en þad er sjálfsagt ad opt þarf ad skipta um ullina, og velgja hana í hvørt skipti, og gæta þess jafnframt, ad ullin verdi ei ofheit, og meidi þannig skinnid á barninu.

Í **Englandi** er þad alvenja ad vefja þvilík born innani volga bómull, til þess ad halda þeim heitum; en hrein saudarull er fullt eins góð, og á henni hafa menn vídast hvar hér á landi rád, en á bómull ekki.

Á hvorjum degi á ad þvo barnid og skipta um fot á því; en þar um ætla eg mér ad fara fleyrum ordum

sídar, en nú ætla eg mér ad tala nokkud ýtarlegar um fædu úngbarna.

## Fimti Kapituli.

### Um fædu úngbarna.

Þegar barnid eptir fædínguna hefur hvílt sig um hríd og sofid, vaknar þad aptur og verdur óvært, eíns og þad vanti eitthvad, og er þad nú í fyrsta sinni ad þad finnur til sultar, því híngadtil hefir þad nærst af blódi módurinnar, er rann inni þess eigid blód, og þurfti því á eingum meltingarkrapti ad halda; en nú, þegar þad er skilid frá módurinni, og nokkrar klukkustundir eru lidnar, finnur þad til súltar. Þad er nú medskapad öllum úngum, sem lifandi fædast, ad þeir vilja fá fædu af módurinni, því sú þurft og tilhneiging vard ad vera þeim medskopud, því annars hefdu þeir allir ordid ódar ad deya, eda med ödrum ordum: ekkért dýrakyn hefdi þá gétad verid til. Eg hefi ádur vikid á, ad til þess eru brjóstin skopud á konunni, einsog júgur á hin dýrin, ad hún á þeim skuli fæda afkvæmi sitt, og er þad því einhvor hin ónáttúrlegasta medferd á barninu — ef módirin ad ödruleiti er heilsúgód, og gétur látid barnid sjúga sig — ad synja því um þá réttu fædu sem Skaparinn hefir ætlad því til vidurværis, því víst er um þad, ad barninu er vandfeingin sú fæda, sem líkist módurmjólkinni, og aldrei gétur þad feingid jafngyldi hennar, sé módirin heilbrigd og heilsugód; enda er eg hræddur um ad offskjaldan sé nóg athygli vidhaft um fædu barnsins, ef módirin hefir þad ei sjálf á brjósti. Eg veit ei af hvorju sá vondi ósidur er kominn, ad ekki nema einstaka

kona hefir hér í landi barn sitt á brjósti, sem þó er allstadar annarstadar algeingt, bædi hjá sidudum- og villiþjódum, og þad ætla eg meigi fullyrda, ad þad sé ein af þeim helstu orsökum til þess, ad barnadaudinn er meiri hér í landi, enn hjá ödrum þjódum; enda hefi eg mörg dæmi til þess af reynslunni, ad þeim konum, er hafa haft börnin á brjósti, hefir heppnast lángtum betur ad koma börnum sínum á fót, enn hinum, er ödruvísi hafa klakid þeim upp; og á þetta ekki einúngis heima hjá einstökum konum eda mædrum, heldur heilum þorpum, hvar þad hefir verid sidur ad hafa börnin á brjósti, til ad minda hér í bænum og í kríngumliggjandi tómthúsmannaþorpi, hvar flestallar mædur hafa börn sín á brjósti, sem þær bædi hafa tekid eptir útlendum konum, er hér hafa verid, og líka hafa margar af þeim einga adra mjólk haft handa börnum sínum enn brjóstamjólkina, og hafa þau svo dafnad á henni, ad eg held óvída hér í landi deyi jafnfá börn á fyrsta ári sem hér í bænum. Eptir Reykjavíkur sóknar kirkjubók fyrir en sídustu 6 ár, 1839—44 eru í öllu bæarins hverfi dánir alls 171, og þaraf börn ýngri enn ársgömul, og andvanafædd, til samans 44; en þad verdur ei meira enn rúmir 25 af hundradi. Í sókninni þar á móti fyrir utan kaupstadarins umdæmi, hvar þad er sjaldgæfara, ad konur hafi börn sín á brjósti, deya lángtum fleiri úngbörn, því í þessi sömu 6 ár, hafa þar dáid alls 86, og þaraf á 1ta ári 33, en þad eru 38 af hundradi, og er þad þridjúngi meira enn í kaupstadnum. Þvílíkur mismunur verdur þó líklega ad koma af einhvorju afbrygdi í medferdinni, og mér þykir líkast til, ad adalorsökin sé sú, ad svo fáar mædur hafa börnin á

brjósti, i þeim hluta sóknarinnar, er ei liggur i, eda rétt vid kaupstadinn. I þessi ár hefur eingin barnaveiki geingid meir i einum hluta sóknarinnar enn ødrum, og adbúnadur og mataræđi er likt hjá mestum þorra fólks, nema hvad mjólkurrád eru vida betri þegar leingra dregur frá kaupstadnum; hitt mun þvi heldur, ad þad ollir børnunum vanheilsu og dauda, ad mædurnar hvorki hafa vilja né þørf á ad hafa þau á brjósti. Væri nú medferdin á úngbørnum i landinn allstadar eins og hér i bænum, vona eg ad meir enn 200 úngborn, eda fleiri, lifdu af, i stad þess ad þau nú deya árlega um allt landid, mest af þvi þau vantar módurmjólkina, og er þad hormulegt ef svo skyldi vera; ad visu er bágt ad segja med fullkominni vissu, hvør adalorsøk sé til barnadauda hér i landi, en þegar þannig eru borin saman lønd og hérød, er þess øll von, ad þvi sé kennt um, er mest likindi eru til, ad valdi þvi, ad hann er svo mikill, sem hann er.

Sú er þvi ósk min og von, ad allar þær mædur og foreldrar, sem er annt um, ad børnum þeirra verdi leingra lifs audid, og þad ætla eg þó um allflesta, — þvi módurástin er sterk tilfinning, medfædd og gefin módirinni af Skaparanum til ad vidhalda lifi sins afkvæmis — láti þau nærast á módurmjólkinni, ad svo miklu leiti sem þvi verdur vidkomid; og þó þad vardi nokkru ómaki, og reini á þolinmædina i fyrstu, er sú gledi og ánægja, er foreldrarnir hafa af barninu med þessu móti eptir á, þeim rikuglegt endurgjald fyrir fyrirhøfnina. Nú býst eg vid, ad margar konur beri fyrir sig þá afsøkun, ad þær hafi svo mørgum størfum ad gegna, ad þær þessvegna ei geti haft

barn sitt á brjósti; en munu ei bændakonur og aðrar erlendis, hafa viðlíka mörg störf á hendi, og þó hafa þær almennt börnin á brjósti? enda hefur bæði móðirin og barnið gott af því, að konan hafi nokkra hreifíngu og störf, á meðan hún hefur barnið á brjósti; og í annan stað er fyrirhöfnin ekki svo mikil, þegar barnið er búið að komast á að sjúga, en það er á stundum örðugt í fyrstunni, ef brjóstvörturnar eru illa lagaðar, og ei vel soguar út strax, um og eptir fæðinguna; og því ætti hvör þúnguð kona, sem ætlar að hafa barn sitt á brjósti, seinast um meðgaungutímann að láta opt sjúga sig, til þess að geirvörturnar géti togast út og lagast, svo að barnið eptir á eigi hægra með að ná utan um þær með munninum; líka kémur með þessu móti mjólkin lángtum fyrri í brjóstin enn ella; en séu brjóstvörturnar aldrei soguar út, áður enn konan fæðir, líða opt mörg dægur þángaðtil barnið fær nokkuð úr þeim, og er það allmikið vankvæði, því þá verður að næra barnið á einhvörju öðru, en af því verður það latara að sjúga, og vill opt hætta því til fulls og alls, ef það, svo tímum skiptir, eingri mjólk gétur náð úr brjóstunum; og því er auðséð hvað mikið ríður á því að sjúga geirvörturnar bæði fyrir, um, og strax eptir fæðinguna, til léttirs bæði fyrir barnið og móðirina, enda kémur með því móti opt mjólk í brjóstin á fyrsta og öðru dægri eptir fæðinguna, og er þá allt hægra við að eiga, að koma barninu á brjóstið. Þær konur sem óvanar eru við að láta sjúga sig, fá opt fyrst í stað, í hvört skipti, sem barnið sýgur, verki, bæði í brjóstin og í lífið, líkt sem það væri aðkénning af fæðingarhríðum, en ekki þarf að óttast það, því verkurinn líður

strax frá þegar barnid er hætt ad sjúga, og hafi módirin þolinmædi nokkra daga í fyrstu, er mesta mædan á enda, því þegar barnid er vel farid ad sjúga og ná mjólkinni, hefur módirin mestu ánægju af ad láta þad sjúga sig, og finnur sér hægd vid þad í hvort sinni er brjóstin verda léttari, en kénnir sér einkis meins af því.

Þeir er sjúga geirvörturnar út á undan, hvort heldur þad eru fullordnir eda únglingar, eiga ad gjöra þad svo duglega, ad þær líkist spenum, og standi svo lángt út frá brjóstinu, sem fremsti lidur á litla fingri, því þá nær barnid í þær. Gott er ad þvo geirvörturnar opt í hreinu og köldu vatni, bædi ádur og eptir ad barnid er lagt vid brjóstid, því vid þad stirkist skinnid, en sé þad ei gjört, verda þær opt skinnlausar — líkt og á skepnum, er verda sárspenar — og þolir módirin þá lakar ad láta sjúga sig; en því vankvædi má varna, med ad þvo geirvörturnar ydduglega í köldu vatni, enda fyrir fædinguna, þegar konan lætur sjúga sig til ad laga þær.

Sé nú þessa gætt, og nokkur stálmi er kominn í brjóstin um fædinguna, má leggja barnid strax vid brjóstid, hérumbil hálfu dægri eptir fædinguna, þegar módirin og barnid er búin ad hvíla sig um hríd, og búid er ad lauga og klæda barnid og svifa þad; géti þad nú strax nád nokkru úr brjóstinu fer allt í lagi, og þarf barnid þá sjaldan adra næringu fyrst um sinn, en þegar barnid, sem opt ber vid, í fyrstu fær litid eda ekkért úr brjóstunum, skal næra þad litid eitt á volgu vatni med sikri í, svo þad sé sætt og nýmjólkurvolgt; má géfa barninu af því nokkra teskeidni þrisvar eda fjórum sinnum á dægri, fyrstu dægrin, nema þad fyrsta, þá er nóg ad géfa því einu sinni, eda

mest tvisvar, en leggja skal það eins við brjóstið fyrir því, einu sinni á hvorjum eyktartíma, þángaðtil það fer að géta náð mjólkinni. Ekki má géfa barninu þetta volga sikurvatn rétt áður enn það er lagt við brjóstið, því þá herðir það sig ekki eins vel að því að ná mjólkinni. Optast tekst það með nokkurri þolinmæði að barnið nái mjólk, á öðrum deigi eptir fæðinguna; en þegar það fyrst er farið að ná nokkru úr brjóstinu, herðir það sig, þángað til það nær svo miklu sem unt er, og það þarf með. Sú mjólk, sem fyrst kémur í brjóstin, á yfrið vel við barnsins veika og óvana meltingarkrapt — og er það samkvæmt Skaparans visdómi — því hún er miklu léttari og þynnri enn sú mjólk er seinna kémur í brjóstin, og líkist fremur vatnsglætu lítið eitt mjólkurlitaðri; þaraðauki gjörir hún svo góðar hægðir, sem vera þarf, til að hreinsa í burtu hið svarta slím, sem er í þörmum barnsins, og því þarf brjóstbarnið optastnær, eingin hreinsandi meðol, ef það gétur áður enn lángt líður um, farið að sjúga, því þá hreinsast það, eptir náttúrunnar eðli, með móðurmjólkinni, Það er öllum úngum sképnum eðlilegt að þær þurfa opt næringar við, enn þó lítið í hvort skipti, því meltingarkrapturinn er svo veikur; og svo er um barnið, það þolir ei sultinn eins vel og fullorðnir, þar líkami þess vex því meir, þess ýngra sem það er; en því meir sem barnið vex, og aldur færist yfir það, því skjaldnar þarf það og að borða, og meira í einu; en stálpaðir únglingar, sem vaxa vel, þurfa að finn leiti meiri mat, enn fullorðnir, því líkami þessara á einasta að haldast við, en hinna jafnframt að vaxa og þroskást. Fyrstu vikurnar sefur úngbarnið leingst af, en í hvort sinni er það

vaknar, vill það sjúga, og á þá að leggja það á brjóst, og láta það ætíð sjúga bæði brjóstin til skiptis, svo bæði verði jafnlin. Að öðru leiti er bágt að géfa reglur fyrir hvað opt á dag barnið sé látið sjúga, enda segir náttúran sjálf til þess, því hvört sinn er barnið vaknar, er það vant að vilja sjúga; en þegar það er orðið nokkurra mánaða gamalt, sýgur það skjaldnar, einkum á næturnar, og má venja þriggja mánaða gömul börn á það að sjúga ei nema einusinni á hvörri nóttu, svo móðirin géti haft enn betra næði, og meiri ró á næturnar; en þá þarf að láta barnið sjúga vel, um leið og háttað er, og vaknar það þá opt ei nema einusinni, alla nóttina. Það ber stundum við, að börn eru óvær og vilja ei sofa þó þau séu nibúin að sjúga; heldur þá móðirin að barnið hafi ei feingið nóg, og leggur það aptur á brjóstið, sem það tekur sem snöggvast, en batnar ekki við það; þegar svo ber að, skal vandlega gæta að og íhuga, hvört barnið muni ei hafa feingið óhægð af því, að það hafi drukkið ofmikið, sem opt ber við; skal og vel gæta að því, hvört það ekki er uppþembt fyrir lifinu, og hvört það ei muni hafa drukkið næsta dægur á undan eins mikið og vant er eða meira, og ef svo er, má ekki leggja barnið við brjóstið nokkrar klukkustundir á eptir, heldur géfa því einn matspón af volgu vatni litlu seinna, ef það ei verður rólegra, því vatnið þynnir mjólkina í maganum; barnið fær og stundum uppsölu við það, og batnar við það.

Þegar barnið sofnar við brjóstið og hefur sofandi geirvörtuna uppi sér, má marka af því, að það hafi feingið nóg, og skal þá leggja það aptur niður í vögguna; það er slæmur vani þegar mæður láta börn liggja sofandi

med geirvörturnar uppi sér i rúminu, því það hefir borið við, að börn hafa kafnað á því, ef móðirin hefir sofnað, og í svefni hallað sér að barninu, svo að brjóstið hefir þrýst að nefinu, því barnið nær þá ei andanum þegar það hefir vörtuna uppi sér, og enda hvort sem er, ef brjóstið leggst fast að vitunum á því. Það þarf því mikla gætni við að hafa, ef móðirin hefur úngbarn hjá hér i rúminu, að það ei veltist innundir hana, eða hún velti sér ofan á það i svefninum, því þá má svo fara, að barnið kafni, án þess að géfa hljóð af sér. Þegar barnið er orðið nokkurra vikna gamalt, fér móðirin optastnær á því, hvört það er svángt eða ekki, því þegar það vaknar, og sér bert móðurbrjóstið, breiðir það gladlega út hendurnar — því móðurina og móðurbrjóstið þekkir barnið fyrst af öllu — en sé það ei svángt, lætur það sér hægt, þó það sjái brjóstið.

Hvað lifernishætti móðurinnar viðvíkur, meðan hún hefir barnið á brjósti, þá má hann um flesta hluti vera líkur þeim, er eg mintist á, þegar eg talaði um aðbúnað þúngaðrar konu; hún má borða allann þann mat er hún er von við, og henni verður gott af, en forðast allt það er henni verður illt af, eða sem hún ei þolir, t. a. m. allt hvað orsakar henni uppbláfstur i maganum, harðlífi eður einhvörja óhægð; því barnið, er drekkur mjólk hennar, finnur til af öllu því, er ollir henni þjáningar; en mest af öllu ætti hún að forðast allt það, sem æsir blóðumrásina, t. a. m. sterkt kaffe og alla áfeinga drikki, og allar sterkar géðshræringar, sem i hennar valdi eru; því barnið, sem sýgur hana, hefir illt af því; vel má slík kona um daga hafa innanhússstörf á hendi, — einsog sagt er um þúngað-

ar konur, — og enda hægt erfidi utanbæar á sumardag, og hreifa sig ad ödru leiti útivid, þegar gott er vedur og barn hennar sefur. Henni ridur, einsog úngbarninu mikid á, ad loptid, sem hún andar og lifir í, sé hreint og gott, og hvorki blandad reykjarsvælu, raka, eda dompum hvar t. a. m. mönnum er offkipad í litlu húsrúmi, og þarf hún því ad gæta þess, ad hreint lopt ætid hafi frjálsan adgáng utanad inni húsid, hvar hún og barnid eru á daginn og sofa á næturnar; þared barnid gjörir módurinni ónædi um nætur, ætti hún ad fara snemma ad hátta á kvöldum, svo hún ætid géti feingid nógan svefn, sem styrkir og hressir hana mikid. Hafi hún litla mjólk í brjóstum, er henni hollt ad drekka mikid mjólkurbland, og borda mikid af þunnum spónamat; en bordi hún kroptuga fædu, kjötmat fisk og feiti, ætti hún helst ad drekka hreint vatn vid þorstanum, og enda mikid af því; því þegar fædan er sterk, og gjörir mjólkina þúnga, má þynna hvorutveggja med því ad drekka med öllum jafnadi mikid af köldu og hreinu vatni, sem hvörjum manni er hollur drikkur, þó meiga úngbörn ekki drekka neitt sárkaldt, fyrri enn þau fara ad stálpast nokkud, eda þau eru ordin hérumbil ársgömul edur eldri, og þó aldrei mjög mikid af köldu í einu, því barnid verdur ad venjast vid þad smátt og smátt, eins og allt annad; liggur ei á ad venja þad á ad drekka þad sem sárkaldt er, fyrri enn þad er komid á annad ár, og þó framanaf lítid í einu, og aldrei neitt sem er mjög kaldt; en þegar barnid er farid ad venjast því, er einginn þorsta drykkur því hollari enn hreint vatn, alla æfi upp þadan; dýrin drekka ekki heldur annad enn kaldt vatn, eptir ad þau eru hætt ad sjúga módurina, og farin ad lifa af sinni edlilegu fædu, og verdur gott af því.

Sum born þurfa optar ad sjúga og meira í einu, enn sum; þó er þad ei ætíd af sulti ad úngborn hljóda, því hljódin eru úngbarnsins einasta mál, hvad sem ad því geingur, hvort heldur þad finnur til sultar, eda þad er vott, eda føtin á því ofþraung, eda nál eda títuprjónn stingur þad, eda því er kaldt, eda þad hljódar af óhægd, hafi þad feingid ádur ofmikid ad drekka. Ad øllu þessu verdur vel ad gæta, þegar barnid er venju fremur óvært, og er þá best ad afklæda þad og hyggja vandlega ad orsokinni sem því valdi, ad þad ekki géti verid rólegt, líta vel eptir øllum føtum þess, hvort ekkért stíngi eda meidi þad, hvort þad ei sé vott, tekid af því, uppþembt og svo framvegis. Sé nokkurnvegin mjólk í brjóstum módurinnar, má ætla ad barnid hafi nóga næríngu, ef þad er látid sjúga hérumbil 8 sinnum í sólarhríng fyrstu 10 eda 12 vikurnar, og sídan 7 sinnum; en eptir ad þad er missiris gamalt ordid, þarf þad ei ad sjúga optar enn 6 sinnum í sólarhríng, og svo skjaldnar, eptir því sem barnid fær adra fædu til hjálpar, og sígur á seinni hluta ársins.

Sem dæmi þess ad módirin hljóti eins ad varast allar sterkar gédshræríngar medan hún hefur barn sitt á brjósti, eins og á medan hún gékk med þad, vil eg géta þess, ad þad bar eittsinn vid í Dresden í Þýdskalandi, ad dáti nokkur, sem bjó hjá timburmanni, er var giptur og átti konu sem hafdi barn á brjósti, illdeildi vid húsbóndan, og kom konan ad rétt í því er dátinn hjó med korda eptir manni hennar; hún hljóp á milli þeirra, og nádi loksins kordanum, og braut hann í sundur; komu þá nábúar þeirra ad og skildu þá, en konan fór strax á

eptir til barns síns, tók það upp og lét það sjúga sig; barnið hafði aldrei áður kennt sér nokkurs meins. Þegar það hafði sogið lítið eitt, hætti það með stunum, og dó litlu seinna. Það ætti því að verða öllum konum er hafa barn á brjósti, hugfost regla, að láta barnið aldrei sjúga sig rétt á eptir að þær hafa orðið mjög hræddar eða reiðar; heldur láta nokkrar stundir frá líða, og enda láta mjólka nokkuð úr brjóstunum áður, og láta ei barnið sjúga fyrri enn þær eru aptur orðnar fullkomlega rólegar í geðinu. Þegar barnið er orðið 8 vikna gamalt, má gjarna — ef móðirin hefir ei mikla mjólk — gefa barninu í fyrstu einu sinni á dag, einhvorja létta, mjúka og þunna fæðu, t. a. m. þunnar grjónasúpur — úr vatni og velmoluðu bánkabyggi, vel soðnar — svo það megi máta það með litlum spæni. Þeir sem hafa hveitibrauð eða skonrok, geta tekið mola af því, smámulið, og soðið síðan í vatni, svo það verði sem þunnur vellingur, og matað barnið á því; ætíð skal gefa barninu lítið í einu, mata það seint, og sem optast á sama tíma dags. Í fyrstu má ei gefa barninu meira enn lítinn matspón í einu, og svo smátt og smátt meira eptir því sem það venst við það. Þegar barnið er orðið missiris gamalt, má gefa því létta og þunna grauta, vel soðna, úr vel moluðu korni, en alténd lítið í einu; en eptir því sem framlíða stundir, tvisvar og seinna þrisvar á dag. Þegar líður á annað missiri, má gefa barninu einstaka sinnum lítið eitt af þunnri kjötsúpu; en kjöt, og allann þúngann mat ætti ætíð að forðast að gefa því, þángað til það hefir feingið tennur. Sömuleiðis skyldu menn forðast að gefa þeim feiti, svo sem: smjör í grautum eða þesshátt-

ar, því það er ofþúng fæða til að géta orðið melt í úngbarns maga. Að tyggja í úngbörn allra handa þúngann mat, er hinn mesti ósiður, því hvorki á barnið að fá neinn fastann mat, fyrri enn það sjálft fær tennur, enda skémmist opt maturinn í munni hins fullorðna er tyggur hann, ef hann hefur óhreinar, og fúlar tennur, eður er andrammur og brjóstveikur, og er þessi óvani hvergi svo almennur sem hér á landi; þegar farið er fyrst að géfa barninu þesshátttar mat, sem aldrei ætti að vera fyrri enn það er árs gamalt, má myrja hann svo og bleyta, að hann verði sem grautur, því framtennurnar, er barnið fær fyrst, hjálpa því ei til að tyggja, og með gómunum gétur það ekkért mulið, sem hardt er fyrir. Allur sá matur, er úngbarnið fær allt þángað til það hefur féingið nokkra jaxla, ætti því að vera svo mulinn, mjúkur og linur, að barnið géti rennt honum niður án þess að tyggja hann. Allt hvað úngbarnið nærist á, ætti hvorki að vera sárkalt, né ofheitt, heldur ætíð fyrsta árið nýmjólkurvolgt, leingi frameptir, og seinna að minnstakosti hálfvolgt. Dúsu ættu börn aldrei að brúka þótt nokkrar mæður gésti þeim hana í munninn, til þess þau liggi þeigjandi, og minni fyrirhöfn þurfi að hafa á þeim því bæði er stundum látið smjör í dúsuna, sem barninu er óholt og ofþúngt, og líka er eg hræddur um, að útaf því beri, að rían, sem utanum matinn er, sé nógu opt þveigin; en þó ekkért smjör eða kjöt sé í dúsuna látið, veitir ei af að þvo hana vandlega og þurka fjórum sinnum á dag, ef hún ei á að orsaka barninu súr og ólyfjan í maganum, og þaraf

fljótandi ymislega magaveiki, skinnleysi i munninum og þessháttar.

Hvenær skuli venja barnid frá brjósti, verdur ei svarad med einni og somu reglu fyrir alla, því þad er ad miklu leiti komid undir heilsufari og odru ástandi konunnar og barnsins; sumar mædur venja born sin frá snemma á odru missiri, ef litil mjólk er ordin i brjóstunum, og bornin, hvort sem er, þurfa toluverda næringu, til uppbótar á mjólkinni. Sumar þarámóti — og þad eru þær flestu — láta bornin sjúga sig, þángad til þau fá tennur, edur þau eru ordin nærri ársgomul; og en eru þær nokkrar, er gjora þad lángtum leingur, ef þær eru hraustar, hafa nóga mjólk i brjóstum, og géta búid vid góda og nóga fædu; og þannig má þad ad miklu leiti vera undir kjorum hvorrar módur komid, hvad leingi hún gétur eda vill hafa barnid á brjósti; því ef barnid er liflegt og heilbrygdt, þegar þad er ordid hérumbil hálfs annars missiris gamalt, þá er hættulegasti timinn lidinn, því flest úngborn, er deya, deya á fyrsta missiri og er þá minni vorkun eptir þad, ad fara náttúrlega med þau, þar mestur vandinn er ad fara med barnid fyrsta missirid; en hvort sem nú barnid seint eda snemma er vanid frá brjósti, þá má ei gjora þad allt i einu, — nema módirin verdi skyndilega veik — heldur smátt og smátt, med því ad géfa því optar enn ádur graut, mjólkurblandsvelling og annann léttann barna-mat, og láta þad sjúga skjaldnar og skjaldnar, einn hálfann mánud eda 3 vikur, og seinast ei nema tvisvar eda þrisvar i sólarhring. Med þessu móti venst barnid á adra fædu, ásamt med brjóstamjólkinni, og mjólkin minkar i brjóstunum eptir því er

barnid sýgur sjaldnar, og hefir því bædi módirin og barnid gott af, ad þetta sé gjort smátt og smátt, og má þad því opt vara heilann mánnd frá því byrjad var, þar til barnid er algjorlega frávanid. Þá má og vel fara ad gésa barninu, þegar þad er lángt komid á annad missiri, litid eitt vatnsblandada kúamjólk ad drekka. Nú er rád fyrir því ad gjora, ad allar konur ei géti haft born sin á brjósti, enda verdur því ei neitad ad nokkrar konur eru svo heilsuveikar, ad þad máské ei sé ráðlegt, hvorki sjálfra þeirra vegna né barnanna. Sú kona, er ei logud til ad hafa barn sitt á brjósti, er hefur einhvorn tærandi sjúkdóm vid ad strida, er brjóstveik eda hefur innanmein, ellegar er mikill gédvargur, því barnid dregur opt keim af þeirri konu, er þad millir, og gédshræringar hennar hafa ill eptirkost fyrir barnid, eins og sýnt er hér ad framan. Sama er ad segja ef módirin er leingi sárveik eptir barnsburdinn, og oll mjólk hverfur úr brjóstum hennar, eda hún deyr; verdur þá ætid ad hafa hina mestu varúd vid allt hvad barnid fær til ad nærast á, því ekkért jafnast því vid módurmjólkina, en þegar ómogulegt er ad barnid fái hana, verdur ad bjargast vid þad er til er i landinu, sem hægast er ad fá, og vidasthvar eru rád á, og mest líkist módurmjólkinni. Fyrsta dægrid þarf ei ad gésa barninu annad enn fáeina teskæni af sætu og volgu sykurvatni, likt og eg gat um, þegar svo stædi á, ad barnid nædi ei mjólk úr brjóstinuum i nokkur dægur — sidan má fyrstu dagana brúka nýmjólkur misu, en ysta ætti mjólkina opt á dag, svo misan alltaf sé ný og ósúr, en blanda hana sidan ad þridjúngi med heitu og sodnu vatni fyrst i stad sárlitinu skamt i einu, eins og barnid

mundi drekka i hvort skipti; því best fer að blanda að nýu í hvort sinn er barnið drekkur; ekki má heldur gleyma því að þvo vandlega ilátið er barnið drakk úr. Ef barnið er, eptir hætti, líflegt, og það ei fær innantökur af missinni, má vel brúka hana fyrstu vikuna, og blanda hana þá minna og minna með vatni, en síðan má gefa barninu mjólk úr þeirri kú, er bar næst á undan þegar það fæddist, og skal taka af þeirri mjólk einn þriðjúng, og blanda með tveimur þriðjúngum af heitu vatni, — er soðið hefir — og hella vatninu í mjólkina, en ekki mjólkinni í vatnið, og blanda ætíð svo lítinn skamt í einu, að ei þurfi að velgja upp aptur, því við það súrnar vatnsblandið, en barnið verður leingi frameptir að hafa jafnan völgt að drekka. Þegar komið er á annann mánuð, má smátt og smátt minka nokkuð vatnið í mjólkinni, en þó ei meir enn svo, að það ei fái óblandaða mjólk fyrri enn það er missiris gamalt. Aðgætandi er, bæði að kýr sú, er mjólkin er tekin úr handa barninu, hafi svo nýlega borið sem kostur er á, og að hún sé hraust og hafi engin innanmein, og sé ei heldur manneygð. Ætíð skyldi barnið drekka mjólk úr sömu kú.

Ekki ríður öllu minna á ilátinu, er vatnsblandið handa barninu er haft í, og á verkfæri því, er það sýgur með, því hvorutveggja þarf vandlega að þvo og hreinsa á hvorjum degi, hvað sem svo er í þeim Tréilát eður askar, sem almennt eru brúkaðir, eru að því leiti lakari fyrir úngbarnið, sem það þarf staka vosbúð, hreinlæti og ydúglegan þvott við að hafa, til þess að mjólkin ei súrni í þeim; betra er því, ef þess er kostur, að hafa steinkrukkur, því þær er hægra að verja fyrir súr; því tréð

drekkur i sig þann súra vökva, svo allt hvað látið er aptur i tréílátið, súrnar strax, ef súrnað gétur, nema ílátið sé, eins og nú var sagt, þveigið vandlega og opt á dag i sjóðandi vatni, og það með hinni somu nákvæmni, sem hofð er við þvott á mjólkur trogum, þegar það er gjort sem vandlegast, þvi vatnsblandið, er úngbarnið á að drekka, verður ætíð að vera volgt, og þvi súrnar það fljótar enn allt annað, er kaldara er; en það riður mjog mikið á, að allt hvað barnið drekkur, sé aldúngis ósúrt, þvi flestir þeir er hafa sjeð morg úngborn verða veik og deya, munu kannast við, að sjúkleikin byrjar með þvi, að flest af þeim fá fyrst óreglu i magann, uppkost, uppþembu og niðurgáng, með grænleitu slimi, sem að lyktum opt dregur þau til bana; kémur þetta optastnær, annaðhvort af súr i drikk þeirra, eða þá af þvi, að mjólkin er ofbúng, og oflitið vatnsblonduð. Eg hefi komið opt þar, hvar úngborn hafa verið veik af þesskonar magaveiki, og hefi eg þá opt um leið skoðað, hvað þau hafa feingið að drekka, og komist að raun um, að mjólkin hefir verið súr, eins og súrmjólk, og iskold, askurinn farðaður, bæði i loggunum og um barmana, og allur full innan, og eins hefur pipan og pipuvasið verið að þvi leiti súrt og farðað. A sliku verður eingin bót ráðin, nema með þvi, að oll áhold séu hreinsuð og þveigin svo vandlega, sem vera ber, og oll þessi meðferð umbætt. Ekkért er óskinsamlegra, enn að vilja fá einhvorja dropa eða þesshattar til að géfa barninu inn við slikri magaveiki, er svona kémur af meðferðinni, en vanda hana þó ei betur enn áður. Það er þvi likt og ef einhvorr drikki eitur opt á dag, en tæki, þegar hann findi það ætlaði að gjora útaf við sig inn einhvorja

dropa, til ad tjarga í sig lífinu. Best er, þegar kostur er á, ad hafa litlar hálsmjóar floskur, og láta svamp eda njardarvott, er ádur sé sodin í heitu vatni, í stútinn í stadinn fyrir tappa, sem standi framúr eins og speni, og vefja þar utanyfir hreina lérepts rin, sem nái vel nidur á stútinn og allt í kring, og binda sídan hörþrædi utanum rinna og stútinn, svo svampurinn ei géti smokkast framúr. Svampurinn er framúr stendur, med rinnni utanum, á ad vera sem líkastur spena, mátulega stórum handa barninu til ad sjúga hann; þad er sjálfsagt ad opt þarf ad skola floskuna vel innan, en einkanlega ridur á, þegar þessi adferd er brúkud, ad þvo og kreista svampinn og rinna ýdugglega uppúr vatni, og er best ad hafa af hvorutveggju til skiptanna, svo ad einn njardarvottur liggi í vatni og verdi þurkadur, medan annar er í floskunni. Þegar flaska er brúkud, er hægt ad halda henni hreinni, med því ad skola hana í volgu vatni nokkrum sinnum á dag, en á svampinum og rinnni má hafa mestu adgætni, ad þvo þau eins opt og enda vandlegar, því þau halda í sér farda og súr lángtum fremur enn glasid. Sé nú ei þvílík flaska til, er best ad brúka stein eda litla leirkonnu, til ad láta barnid drekka úr, því eins hægt er ad halda henni hreinni og floskunni, en þá verdur ad brúka pípu, og er þad þó lakara, þar sem barnid hefir í fyrstunni medfædda tilhneiging til ad sjúga ad sér fædunа, og ætti þad því ætíd ad géta sogid hana gégnum eitthvad, sem líkist brjóstvortunni, og sem ekki géfur mjog ort, því þá svelgist barninu á, ef pípan eda svampurinn géfur of ort. Pípuna má svo til búa: ad taka lánganh fjodurstaf, og annadhvort stinga odrum endanum inni svamp og binda

svo riu utanyfir, eins og um var talad, þegar flaska væri brúkud; eda vefja margfaldri riu utanum enda fjødur-stafsins — og skal hún standa dálitid fram af endanum, — og sídan sé annari vafid fyrir endan og utanum hann, og þvinæst bundid med horþrædi utanyfir allt saman, svo vafid géti ei smokkast af. Sú riau, sem vafin er seinna utanum og fyrir endan, á ad varna þvi, ad vipan géfi mjøg ort. Þegar børn ei hafa flosku ad mylkja, fylgir þad óhagrædi, ad þeim verdur ei géfid ad drekka nema þau séu tekin uppúr vøggunni, en floskuna géta þau mylkt, þó þau liggi kyrr í vøggunni. Pípuna og vafid þarf ad þvo opt á dag, leysa vafid af og skola þad svo í heitu vatni. Sé ekkert stein eda leir-ilát til á bænum, verdur ad tjalda þvi sem til er, hvørt heldur þad er askur, edur annad tréilát; en þvi meir þarf á hreinlæti ad halda, til þess ad géta haldid ilátinu ætid svo ósúru og hreinu sem vera ber.

Børn þau, er ei eru høfd á brjósti, er gott ad venja sem fyrst á ad drekka af barminum, sem veitir þvi hægra þvi þynnri sem barmurinn á ilátinu er, t. a. m. á litilli steinkrukku. Svo má og géfa þesskonar børnum fyrri enn hinum, er nóga mjólk hafa úr módurbrjóstunum, einhvørn léttan barnamat, og má vel byrja þad litid eitt, úr þvi þau eru ordin tveggja mánada gømul, en þar vid er þó adgætandi:

1. Ad maturinn sé ætid tilbúinn med mesta hreinlæti, ósúr, velsodinn, þunnur, vidlika og vellingur, og hafdur i hreinum ilátum, og ætid mátulega volgur, en hvørki ofheitur né sárkaldur. Þad er hinn mesti ósidur, þegar barn er matad med þeim hætti,

ad sá, er matar það, lætur uppi sig hvoru spón er barninu er géfinn, til ad velgja hann uppi sér, eda tyggur í það; en þar um er ádur talað.

2. Ad barninu sé í fyrstu, géfid ofur litid, því annars yrdi meltingarkrapti þess ofbodid; það er, til ad minda, nóg allann þridja mánudinn, ad géfa því sodinn mat einusinni á dag, og ætíð hérumbil í sama mund dags, en fjórda og fimta mánudinn tvisvar á dag; en þrisvar, er leingra lidur frá, en alltaf litid í einu fyrst framanaf, en bæta ofurlitid vid endur og sinnum, og halda því jafnt á fram ef barnid er heilbrigdt og liflegt.

3. Ad best er í fyrstu ad géfa barninu einn og hinn sama mat, en breyta ei til, og síst svo, ad miklu muni, því meltingarkraptur úngbarnsins þolir ei margbreytta fædu, og einkum þolir barnid ekkért, er hefir sterka lykt eda smekk. Maturinn ætti helst ad vera hinn sami er um var gétid; þegar minnst var á medferd á því brjóstbarni, er feingi oflitid úr brjóstinu.

4. ad fordast á ad géfa barninu feitann og þúngann mat, ad minnsta kosti uns það er tveggja ára.

Á ödru ári má vel géfa barninu einstakasinnum litin bita af nýum sodnum þyrsklingi, sem á ad vera vel stappadur í sundur, og nákvæmlega adgætt, ad ei séu smábein í honum; er það mátulega mjúkur átmatur fyrir barnsins úngu og nýsprottnu tennur, og sléttu góma, til ad nudda í sundur og læra á honum ad tyggja. Svo má og géfa barninu í fyrstu einusinni og tvisvar í viku, litinn bita af meiru vodva kjöti, sem sé táid og murid í sundur, eins og nú var sagt.

# Sjötti Kapituli.

## Um klædnad, hreinlæti, svefn, og hreifíngu úngbarna.

Um klædnad úngbarna fyrstu mánudina, er ádur nokkurnvegin rædt, og hefi eg þar litlu vid ad bæta; þegar naflinn er dottinn frá barninu, má ei strax leggja af naflabindid, heldur brúka þad enn þá, 2 eda 3 vikur þar á eptir, og binda þad vidlíka fast og ádur, og leggja, medan því fer fram, hreina ríu, smurda med feiti yfir sjálfan naflan, svo fötin nuddi hann ekki né særi; naflabindid midar líka til ad stydja ad naflanum i fyrstu, ad hann gángi ei út þegar barnid hljódar fyrstu vikurnar. Lærin ætti ætid ad vefja hvort fyrir sig med lérepts ríum eda blæum, og eins fæturnar, svo ad limirnir ei nuddist hvor vid annann, og taki svo af skinnid eda þad rodni i fyrstu, medan barnid er sem skinnveikast. Adrar ríur þarf og ad leggja nedanum barnid, er taki vid öllum óhreinindum þess, eins og alkunnugt er, og þurfa þær ad vera svo margar, ad ætid verdi strax skipt um, er barnid hefir vætt sig eda gjört sig óhreint, en hreinar og þurrar ríur lagdar vid i hvort skipti. Þegar úngbarnid er tekid upp eda hreist, medan þad er i sviftí, eda hvornig sem þad er klædt, eda þad er bert, þarf vandlega ad gæta þess, ad annari hendi sé jafnan haldid undir hnakkanum og höfdinu á því, því barnid er svo máttlitid i fyrstu, ad þad ei getur haldid höfdi, og dettur því höfudid til ýmsra hlida; þykist **Dr. Hufeland** hafa séd barn allt i einu deya af því, ad höfudid datt skjótlega

út á hlidina eda aptur á bak, enda getur mænan slitnad, vid það, og þarf slíkt því vandlega ad varast.

Þegar búid er ad leggja reifid nidur og barnid er ordid tveggja edur þriggja mánada gamalt, má, einsog ádur er á vikid, klæda barnid hvornig sem vill, sé þess ad eins gætt ad barninu sé ætid nógu heitt, og fötin á því lidug, rúmleg og hrein; ad ödru leiti má hvor laga og snida fötin eins og hann vill, og hann hefir efni og faung á. Höfudfat úngbarna á ætid ad vera létt og þunnt, nema þegar barnid er borid út undir beran himin.

Á hreinlæti ridur barninu eingu minna, enn á klædnadi og fædu, og þarf því ad þvo allann þess kropp úr volgu vatni tvisvar á dag fyrstu vikurnar, en láta barnid þó ei allt vera bert i einu, heldur afklæda það smátt og smátt, jafnódt og það er þvegid, og strjúka það svo med votum og volgum svampi edur njardarvetti, og leggja svo eitthvad yfir þann hluta kroppsins sem búid er ad þvo, medan hinn er þveginn. Um leid ætti i hvort sinni ad klæda það i hreina skyrtu, því öll nærfot verda fljótt óhrein á úngbarninu; seinna, þegar frá lidur og barnid er komid á annann mánud, er nóg ad þvo það og skipta um skyrtu á því einu sinni á dag; vandlegast þarf ad þvo barnid ad nedan, hvar því opt hættir vid ad rodna, og má þar brúka kaldara vatn enn annarstadar, því það styrkir betur skinnid, enda ætti ad þvo það þar i hvort sinni, sem það verdur vott edur óhreint.

Það er gott og holt ad lauga úngborn fyrstu vikurnar, einusinni eda tvisvar i viku, i volgu vatni, likt og talad er um hér ad framan, þar sem rædir um laug

á nýfæddum börnum, því volg böd eiga vel vid úngbörnin.

Þegar lídur framm á annann og þridja mánud, má vatnid, sem barnid er þveigid úr, gjarna vera nokkud kaldara, og þegar ekki er kaldt í vedri, né vatnid sárkaldt, þarf, eptir 3 mánudi, varla ad blanda heitu vatni í þad, enn ei skal skipta um allt í einu, heldur smátt og smátt, med því ad hella minna og minna af volgu vatni samanvid þvottavatnid, svo barninu bregdi aldrei mjög mikid vid. Aldrei skyldi þvo barnid, þegar þad er rétt nýlega vaknad, heldur láta þad bída litla stund, svo þad sé fullvaknad; ekki er heldur gott ad afklæda barnid medan því er mjög heitt, eda þad er sveitt, því þá gétur slegid ad því kælingu.

Nú sefur úngbarnid mest framanaf æfinni, þángadtil skilningarvitin fára ad æfast, og þad fer ad vitkast og horfa eptir því, sem fyrir þad ber, og er þessi svefn eptir edli náttúrunnar, og má ei meina barninu hann; þad er því betra, því rólegar og náttúrlegar sem barnid gétur sofid. Fyrstu vikurnar eptir fædinguna sefur barnid hérum bil sjö áttundu parta úr hvörjum sólarhring, en svo smátt og smátt minna og minna, þó þurfa stálpud börn og únglingar töluvert meiri svefn enn fullordnir, og þola sídur ad leggja á sig vökur, og má því ei herda ad þeim í því efni. Þannig má barnid sofa svo mikid, sem þad vill og gétur, framanaf æfinni; svo ættu menn og ad varast ad vekja þad mjög hastarlega, eda ad taka þad sofandi upp úr vöggunni, heldur láta þad sjálfkrafa vakna; ei heldur má ætlast til ad barnid sofi eins leingi, þegar þad er ordid nokkurra vikna gamalt, og ætti þá

að lofa því að vaka nokkrum sinnum á dag, litla stund í einu, til þess að æfa skilningarvit sín, með því að heyra og sjá það sem fyrir þau ber. Gott er að venja barn snemma á að sofa mest alla nóttina, en vaka heldur stund og stund á daginn, og ætíð helst um sama mund; má þá sitja með það í kjöltu sér, vissar stundir dags; en vaki það mikið leingur, og venju fremur í eitt skipti enn annað, og hljóði þegar það er lagt niður, má ekki þvínga það til að sofa fyrri enn það vill og gétur, og skal þá vandlega aðgæta, hvað því muni valda, að það ei géti komist í ró, því verið gétur, að það annaðhvort hafi drukkið ofmikið, eða það sé svángt, eða því sé kalt, eða það sé vott, eða því svíði einhvörstaðar eða það liggi á hörðu, eða fötin herði einhvörsstaðar að því eður eitthvað meiði eða stíngi það, eða loptið sé kaldt, óhreint eða reykblandað, hvar barnið er. Allt þetta verður nákvæmlega að aðgæta, svo ei gjöri menn þvert á móti því er vera ber, t. a. m. ef barnið hefur drukkið ofmikið, svo það hefir óhægð af, þá væri óvit, að géfa því enn þá meira að drekka. Það eina og saklausa meðal til að fá börn í ró og svefn, er að sýngja við þau, og vagga þeim með hægð — því skaðlegt er að vagga þeim mjög mikið, og slæmur ávani — þau sofna allteins vel, þó þeim sé vaggað hægt og seint, þegar þau ekki venjast á annað, og enda hefi eg opt séð voggur, sem stóðu á 4 fótum, og ei varð vaggað, og þó sofa börn eins rólega í þeim, þegar þau aldrei venjast á annað. Vaggan ætti aldrei að standa þar í húsinu, hvar mikil birta skín í augun á barninu, og ei heldur þar, hvar vindsúg leggur um. Sængurföt barnsins þurfa ei að vera önnur enn heydýna og rekkjuvoð ofaná, og koddi, helst fylltur með

ull undir höfdinu. Ofaná fér þurfa þau meira edur minna eptir því sem kaldt er í húsinu, og eptir því hvad kuldi sækir mikid á þau. Offnemmborin börn og mjög litil, eru opt köld á fötum og annarstadar, og þyrftu því ad hafa létta ædardúns yfirsæng, edur ad minnsta kosti þyrfti ad vefja ull utanum þau, eins og ádur er umgétid; ad ödru leiti má hafa hvört er betra þykir, þunna og létta ædardúns dýnu, eda margfaldann ullardúk, er sé bædi léttur og heitur, og ábreidu þar ofanyfir; barnid á ad leggjast á hlidarnar til skiptis, en aldrei liggja á bakid, nema þegar þad liggur vakandi í vöggunni, og er ordid svo margra vikna gamalt, ad því þykir gaman ad horfa á hitt edur þetta; má þad þá litla stund liggja á bakid, en ætíd á þad ad sofa liggjandi á annari hvörri hlidinni, sem bædi er því hægra, og líka rennur betur uppúr því, ef þad fær uppkost; en liggi þad á bakid, liggur því, þegar svo ber ad, vid ad kafna. Þad þarf valla ad minnast á, ad sængurfötum barna þarf ad halda vel hreinum, eigi sídur enn ívernfötunum, og líka verdur opt ad skipta um heyid í sænginni, og um leid ætíd ad þvo verid og þurka þad.

Eg hefi svo opt hér ad framan minnst á, ad loptid þarf ætíd ad vera hreint, reykjar, raka og lyktarlaust í þeim húsum, hvar úngbörn eru inni fyrir, og ætla eg því ekki ad vera lángordur um þad á þessum stad. **Enskir** læknar kénna jafnan fúlu lopti og rakafullu, reykjarsvælu og óhollum dömpum í húsunum um, hvar **ginklofi** er almennur á börnum, hvört sem þad er í einstöku húsum, edur í einstaka bygdarlagi, eins og um er gétid hér ad framan; og er þaraf, eins og af mörgu ödru, audrádid, ad þad hlýtur ad vera banvænt fyrir úngbörnin ad vera allt-

af i sífeldri dampasvælu, og ríður einna mest á því atriði í allri meðferð úngbarna, að þau lifi í hreinu og góðu lopti, sem ætíð nái að endurnýast með hreinum loptsstraumi utanað; og skora eg því á allar þær mæður, er vilja sér og börnum sínum vel, að hafa vandlega athygli á loptinu í húsum sínum, því sé þari einhvör vanrækni, spillir það öllum kostunum, þó allt annað, er meðferð á barninu viðkémur, sé vandað sem best verður.

Hreyfingu þarf úngbarnið að hafa snemma æfinnar, einsog allar lifandi skepnur er á jörðinni lifa; og því fremur þarf úngbarnið hreyfingar við, sem það er svo veikburða þegar það fæðist, og gétur leingi frameptir einga björg sér veitt, og stendur þannig á baki við flest annað dýrakyns úngviði; en þegar fram líða stundir verður maðurinn þó miklu ágætari enn öll önnur dýr á jörðunni, svo hann gétur drottnað yfir þeim og brúkað þau einsog þjóna sína; en það er sjálfsagt, að fyrst í stað gétur barnið ekki hreyft nema útlimina og hljóðað upp yfir sig. Hreifingin er fyrst framanaf þolandi eða líðandi, það er að skilja, barnið hreifist ei annað enn hvað aðrir hreifa það, nema hvað brjóstið hreifist við andardráttinn og hljóðin, og það fer strax að sprikla með útlimunum lítið eitt; og er þetta hið síðast talda einúngis gjörandi, ɔ: viljans hræring, og má hana eingan veginn hindra með því að binda utanum hendur og fætur, einsog áður er um gétið við reifana, heldur ætti að lofa börnunum ætíð frjálslega að hreifa alla útlimi, og þegar skipt er um fot á þeim, að sprikla litla stund, ef hlýtt er í húsinu, þegar þau eru nokkurra vikna, í nærfötunum — aðra hreifingu hafa þau ei fyrstu vikurnar, nema hvað

þau eru borin innanum húsið, hvr rúmleg húsakinni eru, og það sem þau hreifast við að þvo þau, klæða og afklæða, og gjora þeim til góða. — Fyrstu mánuðina á að bera born liggjandi i fánginu, en þegar þau eru komin toluverdt á annað missiri, má bera þau á handlegg sér, og verdur þá ætið að aðgæta, að barnið sé borið á víxl á báðum handleggjum, og að það nái að styðja kroppinn og høfuðið við brjóst og høfuð á þeim er ber það. Þess er áður getið, að úngbornum er holt að þau séu borin út einstokusinnum undir beran himin, þegar gott er veður, en þó þarf að haga sér i því tilliti, eptir veðuráttufari og oðrum kringumstæðum. Sé barnið fædt á vortíma, má, eptir að það er orðið hérumbil mánaðargamalt, bera það opt út, þegar sumar-blíðviðri er, en þó skal ætíð sveipa einhvorju ofanyfir og utanum það, svo ei géti slegið að því kulda, en láta þó andlitið vera bert, og gánga svo með það litinn matmálstíma i fyrstu, en síðan leingur, þegar það er farið að venjast vel við loptið; einasta þarf að gjalda varhuga við að barninu aldrei verði kaldt. Sé barnið fædt um haust eða vetur, riður ei á að bera það út fyrri enn það er tveggja mánaða gamalt, og hyggja að því, að veður sé lygnt og eingin úrkoma, og ei frost til muna, og klæða það að því skapi skjóllegar sem árstimi er kaldari. Þegar búið er að koma barninu á að bera það út, ætti og að halda því áfram, þegar veður er gott og blídt, þó ei sé i fyrstu nema svipstund i einu, því ámeðan fær barnið svo hreint lopt að anda, sem unt er að fá, og riður því meira á því, sem loptið kynni að vera misjafnt hvar barnið er inni um daga og nætur.

Ad aka børnum úti og inni í korfum, sem í ødrum løndum tídkast, eru skjaldnast faung á hér í landi, og því þarf valla ad tala um þad. Fyrri enn barnid er því-nær ársgamalt, ætti ekki opt ad bera vid ad láta þad standa upprétt á fótunum, og síst leingi í einu, því er nógur tíminn ad læra ad gánga frá því þad byrjar annad árid; eptir náttúrunnar edli ætti barnid ætíd ad læra fyrst ad skrída á fjórum fótum, ádur enn þad fer ad læra ad gánga upprétt, og fer best hvar húsakinnum er svo háttad, ad því verdur vid komid, ad breida brekan á gólfid, og losa barninu, þegar þad er ordid hérumbil 8 eda 9 mánada gamalt, ad reyna sig á, og æfa sig í ad skrída fram og aptur á því, og stundum láta þad sitja á því. Líka má láta þad skrída innanum rúm, er breidt sé ofanyfir, svo ad slétt sé. Vid þad od læra fyrst ad skrída, æfir barnid mikid hræríngar vodvana, og verdur lángtum lidugra í øllum limaburdi. Þó þad opt velti útaf, meidir þad sig lítid, eda ekkért, en lærir þar vid ad vara sig betur; því þad hefi eg sjálfur séd, ad børn, sem fyrst æfa sig í ad skrída, verda sídan lángtum fótvíssari, þegar þau fara ad geta geingid, og detta skjaldnar, enda varast þau betur enn hin ad detta, því ef þau sjá fyrir sér steina, þúfur eda adrar torfærur, bregda þau strax fyrir sig ad skrída, enda er þad forsjálegast, því med því móti detta þau edur meida sig lángtum skjaldnar, enn hin, er óvon eru vid ad skrída. Þegar þau hafa skrídid um tíma, læra þau loksins af sjálfum sér ad standa á fætur og stydja sig vid eitthvad, og verda þau þá í fyrstu ad gánga med, edur hafa eitthvad ad stydja sig vid. Menn hafa nú ýmislega adferd ad kénna børnum ad gánga, til

ad minda gaunguband, er gjort er með belti yfirum brjóstið — er aldrei má vera þraungt — og svo tveir hánkar úr því að framan og aptan, uppyfir báðar axlirnar, hvar í einhvør eldri heldur; lætur svo barnið gánga á undan sér og varnar því þarvið frá að detta, að allt af er með gætni haldið í hánkana eða bondin, er fest eru í brjóstbeltið. Aðrir hafa gaungu stól, eins og litið borð með 4 fótum, er allir standa útundan sér, og stórt gat á borðinu í miðju, svo barnið géti vel staðið innani, og svo rúmlegt, að það géti snúið sér við fram og aptur, og má stóllinn ei vera hærri enn svo, að hann nái valla barninu undir hendur, en fæturnir ættu að leika á hjólum; en þessu verður ei við komið nema hvar fjalagólf er, enda vil eg ei ráða neinum að brúka mikið þessháttar gaungustóla, því barnið lærir meir að standa enn gánga í þeim, og ef það er látið standa ofleingi í einu, vill það hníga niður, því ofmikið reynir á fæturnar, sem ei géta borið kroppinn, og bogna stundum fótleggirnir og lærin við það, ef ei er aðgáð, að láta barnið aldrei standa nema mjog litla stund í einu. Þó hvorugt af þessu sé skaðlegt í sjálfu sér, ef vel er aðgætt, að barnið hvorki meiði sig á brjóstinu, eða neitt þreyngi að því, þá er þó hitt betra að láta barnið sjálfkrafa læra að gánga, en hafa vel gætur á fyrst þegar það fer að henda sund, að það ei detti og meiði sig, enda hættir því optar við að detta, ef það er áður vant við gaungu band eða gaungu stól, því þá bregður því meira við, enn ef það frá ondverðu hefir mátt sjálft læra að vara sig.

Það er sumstaðar siður hér á landi strax að flytja bornin fárra daga gomul til kirkju, og það enda opt á

vetrardag í misjöfnu vedri, og um lángann veg, og er þad hin skadlegasta óvenja, og getur opt ordid börnunum ad bana. Þad má nærri géta ad úngbarnid, sem fyrir fáum døgum dró andann í fyrsta sinni — einsog hér ad framan er útlistad — muni illa þola ad anda nokkrar stundir samfleytt í köldu lopti, og þó vandlega sé um þad búid, og vel farid med þad, sem eg ei efast um ad optast muni vera, þarf þad þó ad anda, því annars kafnar þad strax, og þegar barnid er svo leingi úti, og undir køldu lopti, getur þad orsakad ýmislegar sóttir og brjóstveikis tegundir, og þad því heldur, sem lúngu barnsins eru einn sá vidkvæmasti partur líkamans, næst eptir augun, og þolir barnid því ei ad neitt sé ad loptinu er þad andar, einkum fyrstu vikurnar, hvorki ad þad sé ofkaldt né ad þad sé óhreint, dampa- reykjar- eda rakafullt; og hvad liggur á því ad skíra børnin svo ógnarfljótt? þad er ad sönnu opinber kirkju sidvenja ad skíra úngbørnin, en løgin leyfa þó, ad bída med þad eptir tækifæri og hentugleikum, því tilskipan frá 30ta Mai 1828, segir, ad børn, sem fædast frá 1ta Marts til 1ta September, eigi ad vera skírd innan 8 vikna; en þau er fædast allt haustid og veturinn, frá fyrsta September, meigi bída til næstk. Maii mánadar útgaungu, svo ef foreldrar hér í landi vildu fara eptir þessu lagabodi, eptir því sem ástendur, þyrfti ekki ad stofna børnunum í lífsháska med því þannig ad flytja þau ofsnemma til kirkju, því barn sem er nær því 8 vikna, má vel flytja med gætni í gódu vedri; enda ætla eg ad flestir Prestar séu svo nærgætnir, ad þeir feingjust til ad skíra børnin heima, og væru þad óskinsamleg løg, sem bönnudu þad í svo strjálbygdu og køldu landi, sem

Island er. Fjoldi kristinna manna er til, — Skírarar og Endurskírarar, — er aldrei skíra born sín fyrri enn 16 vetra og eldri, og meigum vid þá eins vel bída nokkrar vikur á sumrum, og leingur á veturnar, uns tækifæri bidst til ad sæta gódu vedri, eda Presturinn gétur komid ad skíra barnid í heimahúsum. Þad er því ekki nema af gomlum vana og hleypidómum, ad menn flýta sér med barnid til skírnarinnar strax á odrum og þridja degi, og færi betur ad sá vani legdist nidur, því þó morg børn lifi af, og séu leingi heilbrygd á eptir, þá vita menn þó ei hvad morg af þeim fjolda barna, er deyr fárra vikna, hafi feingid uppruna orsok til daudameinsins af skírnarforinni.

Adurenn eg hætti máli mínu um klædnad og hreyfingu úngbarna, vil eg minnast á, ad þegar born eru komin á annad og þridja ár, og þau eru farin ad vappa úti, láta sumir þau gánga í klukku, sem svo er kollud, en hún er eins og pils ad nedanverdu, svo børnin eru ber um lærin og nedantil um lífid innanundir, og gýs vindur og gola því uppundir þau, svo þeim verdur opt kaldt á lærum og á maganum, og þad því heldur, sem þau á þeim aldri standa skjaldan til leingdar upprétt, heldur bogra, skrída og veltast á ýmsum endum; og er því rádlegt, ad láta born, þegar þau eru farin ad gánga úti, brúka knjáskjól, og jafnframt breidt ullardúksbelti um magan, til þess ad halda honum heitum; því auk þess ad born fá opt innantokur og magakveisu, af því þeim verdur ofkaldt á maganum, leikur mér grunur á, ad þetta, ásamt odru fleiru, valdi því, ad meinlæti og innanmein eru svo almenn hér í landi, fremur enn í flestum londum

odrum. Verdi barninu opt kaldt á lífinu, getur þad ollad samdrætti, og meinsemdum i lifrinni, af hvorju fólk opt verdur heilsulaust á besta aldri. Gæta verdur þess, ad beltid sé ætid nógu rúmlegt á barninu, og þreingi hvergi ad því, og sé þaradauki svo breidt, ad þad nái frá hjartagróf nidur ad lífbeini. Sama regla hagar vel ollu kvennfólki, er hefir útiverk á hendi, því klædnadur þess er svo lagadur, ad því hlýtur opt ad verda kaldt á lífinu, hafi þad hvorki knjáskjól né magabelti, og ætla eg þetta hjálpi til, ad fjoldi af kvennfólki hér i landi hefir bædi tidateppu og innanmein, þegar um tvítugs aldur. Skjaldgæft er þad hér i landi, ad born gángi úti med beran háls og brjóst; en i odrum londum ollir þad morgum bornum lángvarandi hósta, tærandi brjóstveikis og dauda.

## Sjoundi Kapituli.

### Um þad er børn taka tennur.

Þad er mjog misjafnt hvad snemma born taka tennur, því þad ber vid ad born fædast med einni eda tveimur, en þær detta opt fljótt úr þeim aptur, og séd hefi eg barn, er þó var þrífiegt, sem spratt fyrst tonn, er þad var 15 mánada gamalt, svo ei er unt ad einskorda hvenær þær fyrstu tennur spretta upp, med því þad er mjog misjafnt; en á flestum bornum er þad seint eda snemma, eda einhvorntima á odru missiri. Um þann tíma eru bornin opt lasin, og ridur þá mikid á, ad oll sú adgætni, nákvæmni, eptirtekt og umhyggja sé vid hofd, sem unt er úti ad láta.

Optast sá bornin fyrst 2 framtennur i hvorjum gómi,

og sídan fleiri, utar frá þeim, þángað til það hefur feingið 10 tennur í hvorjum gómi, eða 20 alls; þær kalla menn mjólkur tennur, því barnið fellir þær aptur, þegar það er orðið 7 vetra. Þessar 10 tennur í hvorjum gómi, eru: 4 framtennur, lagaðar til að bíta eða skéra í sundur með; þarnæst eru 2 augnatennur, sín hvorju megin í efri gómi, — í enum neðri kalla sumir þær hundatennur — og 4 jaxlar. Þessar mjólkurtennur eru allar vanalega sprottnar upp einhvorntíma á 3ja ári en vísirinn til allra þessara tanna er til niðri og uppi kjálkunum þegar fyrir fæðinguna, og enda byrjun til hinna tannanna, er koma í staðinn fyrir mjólkurtennurnar, og verða sterkari og fleiri, því þær verða loksins 16 í hvorjum gómi, og eru 10 af þeim jaxlar, þeir seinustu kallast **vísdómstennur**, og spretta ei upp fyrri enn eptir tvítugs aldur. Það er auk annars af því atriði, hvenær tennurnar spretta uppúr tannholdinu, og hvernig fyrstu tennurnar eru bygðar og lagaðar, auðsært, að Skaparinn hefir ætlað barninu móðurmjólkina eingaungu til fæðis, allt þángaðtil það væri búið að taka tennur, og þareð enar fyrstu mjólkurtennur hvorki eru harðar né sterkar, ætlaðist Hann einnig til, að barnið leingi eptir það, feingi þunnann, mjúkann og léttann mat, sem litið eða ekkért þyrfti að tyggja, meðan tennurnar ei eru orðnar styrkar og harðar, því þær vaxa með barninu eptir að þær eru sprottnar upp, þángaðtil það aptur fellir þær.

Menn géta ráðið af lögun og byggingu tannanna, hvorslags fæða sé hvorju dýrkakyni ætluð, og því skipta náttúrufróðir menn, dýrakyni öllu, er tennur hefir, í

flokka, eptir þvi, sem tennur hvørs eins eru lagadar til, og þeim er varid.

Tvø tímabil eru adgætandi vid hvørja tonn medan hún er ad spretta upp. 1. Ad tonnin bólgnar nidri eda uppi kjálkanum, og ollir þad barninu opt sárrar tilfinningar; 2. ad hún tognar seinna og leingist uppad, eda nidur, inni tannholdid, og kémst seinast gégnum þad. Þar af er þad skiljanlegt ad born um þad leiti eru opt óróleg og veik, sem menn ei géta skilid sé af ødru enn fyrir tønnum; en opt batnar þeim, og tønnin kémur þó ei i ljós, fyrri enn laungu seinna; var þad þá af þvi, ad tønnin óx og bólgnadi inni i kjálkabeininu á barninu, en svo batnadi þvi þegar hún hætti þvi, og alleina tognadi inni tannholdid; stundum byrjar óróinn i barninu aptur, þegar tønnin brytst útundir gómskinnid, og stundum ber ekkért á þvi. Þad er ad ødruleiti mjøg misjafnt hvad mikid børn verda veik vid tannkomuna, og á sumum verdur valla vart vid neina veiki, eda litla, og þad ætla eg ad sé almennara hér á landi, en þad ber þó vid, ad þau verda mikid veik, og mørg deya i bænum erlendis af þvi; en ætid færri á landsbygdinni.

Á hinu fyrra tímabili verdur barnid óvært, án þess menn géti fundid neina orsøk þartil i medferdinni; slefa rennur venju fremur úr munni þess; þad hljódar meira enn þad er vant vid ýmisleg tækifæri, en huggast fljótt aptur; høfudid og kinnarnar hitna med køblum, stundum þyrstir þad, og drekkur þá mikid, stundum vill þad ekkért drekka, stundum rodna augun og kinnarnar, og barnid grætur ýmist eda þad brosir; þad sefur med meiri óværd enn vant er, og hrøkkur fljótlega upp; gómarnir á þvi verda vidkvæmir, og barn=

id ber allt í munninn, er það festir hendur á, og fær það sem fróun af að nudda því milli gómanna. Optastnær fær barnið um sama leiti nökkurn niðurgáng, og skal ei flýta sér að stöðva hann, ef hann ei er því meiri, og barnið hefur nokkurnvegin matarlist, því það er náttúrunnar hjálp, við hvað barninu skánar tilfinningin í kjálkunum og höfðinu. Þegar þetta hefir varað um hríð — eingin föst regla er fyrir hvað leingi það varir — batnar barninu smátt og smátt, og það verður aptur rólegt. En ei líður mjög lángt um, áðurenn barnið verður órótt í annað sinn; það vill eins og áður bera allt í munninn, er það fær í hendur, en þolir þó ei að það komi við gómana, sem nú eru heitir og þrútnir, með mislitum dílum og ljósröndum. Barnið vill sitt í hvort sinnið, og heimtar nú þetta, nú hitt; í stuttu máli: það er svo mikil óeirð í því, að það venju fremur ekki eirir við neitt að staðaldri; hefir ei lyst á að drekka, nema einstakasinnum, og þyrstir þá mikið, líka fær það á stundum aptur óreglu í magann; en þegar tönnin er komin í gégnum gómskinnið, batnar allt þetta opt innan skams tíma. Svona geingur nú vanalega til, þegar börn taka tennur að þau verða meir eður minna lasin og viðkvæm, meðan á því stendur, en þessu hagar svo misjafnt til, að meðan sum taka tennur, án þess vart verði við fyrri enn þær eru komnar, fær einstaka barn alla þá kvilla er nú var um gétið, og þaðanaf verri t. a. m. krampa, slog og þesshattar. Optast finnur barnið minna til, þegar það tekur framtennur, enn augnatennur, enda eru þær síðarnefndu mörgum börnum þær erfiðustu, og á sumum eru þær og þær einustu, er nokkur tannveiki sé samfara, áð-

ur enn þær koma í ljós. Jaxlana þar á móti, sem þó eru svo breidir ofan, og því ólidlegri til ad spretta upp í gégnum tannholdid, taka born opt, án þess þau kénni sér nokkurs meins af því, enda er barnid þá ordid eldra og hraustara fyrir, og vant vid ad taka tennur, þegar þeir koma upp.

Um þennan tíma ridur mjog á því, ad barninu aldrei sé of heitt á hofdinu, og heldur ekki kaldt á fótum, því þá sækir blódid meira til hofudsins; best er ad barnid annadhvort sé berhofdad um þennan tíma, ef heitt er í húsinu, eda hafi létta og þunna lérepts húfu og einfalda, á hofdinu. Brjóstbornin hafa ætid hina somu fædu, og er hún hollust; en med þau sem ei eru brjóstmylkingar er vandfarnara; þau eiga þá ad hafa enn þá léttari fædu enn ádur, og mjólkina meir vatnsblandada, eda fá þunnt grjónaseidi ad drekka, annadhvort af hafragrjónum sodnum í vatni, eda, ef þau ei eru til, seydi af bánkabyggi, sodnu í vatni, og sén grjónin síud frá, ádur enn barninu er géfid ad drekka. Fái barnid ekki nidurgáng af sjálfu sér, má géfa því misu ad drekka, því hún er litid eitt opnandi. Gott er um þennann tíma ad þvo barnid og enda ad lauga þad í volgu vatni einstokusinnum, ef þad er mjog veikt af sér. Mest af ollu ridur samt á um þennann tíma, ad loptid ætid sé vel hreint og gott í húsinu, hvar barnid er inni, og segir hinn enski vidfrægi barnalæknir Dr. Combe, ad einginn hlutur sé um þann tíma barninu eins hollur, og verji þad einsvel frá ollum hættulegum afleidingum tannkomunnar, sem ad bera þad stundarkorn í einu daglega út undir beran himin, þegar nokkurnvegin er gott vedur. Nú

er barnid ordid svo mikid eldra enn eg gjordi ráð fyrir, þegar eg mintist á skirnina, ad eingin vorkun er ad vefja einhvorju utanum þad og ofanyfir, svo ei slái ad þvi kulda, enda þarf barnid ei ad vera, nema litla stund úti i einu. Þegar sumar er, og blídvidri, ætti ad bera børn, sem eru nálægt þvi missiris gømul, opt út á dag, eda láta þau vera vid og vid úti. Þvi trúir valla nokkurr, sem ei skilur eda veit loptsins verkun á mannlegan likama, hvad mikid hreint lopt úti, stirkir hann. Þad er alkunnugt, ad hjartveiki, hrædsla og allir þeir kvillar, er koma af ofmikilli vidkvæmni i tilfinningar-kérfinu, eru miklu skjaldgæfari á øllu þvi fólki er mikid er úti vid, enn á þeim er hafa kyrrsetur i húsum inni. Vidkvæmnin er nú mest á úngbarns aldrinum, og þvi vidkvæmari sem børnin eru, þess meira verdur þeim um ad taka tennur, en vidkvæmnin minkar, og þau stirkjast þvi meir, sem þau eru optar úti i hreinu lopti, og þessvegna er þeim þad svo hollt; en vel verdur þess ad gæta, ad vedur sé bjart og þurt, og ad þau séu skjóllega klædd, þvi kjæling er þeim ætid hættuleg. Þegar ei er vedur til ad láta þau koma út, ætti, ef kostur er á, ad taka glugga stundum opinn á daginn, eda einhvoruvegin láta hreint lopt streyma inni húsid, hvar barn er inni fyrir. Hafi barnid hardlifi, verdur ef misan ei nægir, ad géfa þvi, t. a. m. barnapulver, svo kallad, eda einn tespón af opnandi oliu. Vilji barnid bera allt hvad þad fær, i munninn, og nudda þad med gómunum, má bædi nudda þá stundum med fingurgómi sinum, og lofa þeim ad hafa i munninum slétt-an hring eda spada af horni eda beini, þvi þad fridar um stund, ad kreista gómunum saman utanum þad. Ept-

því sem medferdin á barninu hefir verid skinsamlegri og náttúrlegri, bædi yfirhöfud, allt í frá fædingunni, og sérílagi um þad tímabil, er tennurnar spretta upp, verdur barninu minna um þegar þad tekur þær.

Dr. Combe segir, ad mikill fjöldi af börnum deyi bædi í London og í ödrum stórbæum á Englandi, um tannkomutímann, en lángtum færri á landsbygdinni, og kénnir hann því mest um, ad loptid er svo þúngt og óhreint í stórstödunum — einsog eg hefi ádur gétid um — ad lítid stodar ad bera börnin þar út, sem menn almennt gjöra á landbygdinni, enda deyr þar ei af tannveiki, af sama úngbarna fjölda, nema 1 á móti 6 í kaupstödunum. Nú eru tennurnar smátt og smátt ad fjölga frá því þær byrjudu ad spretta, þángad til barnid er tvævett, eda komid á þridja ár, og allar mjólkur tennurnar eru komnar í ljós. Fyrri enn því er lokid, er þeim ei óhætt, fyrir afleidingum tannkomunnar, enda er barnid ennþá veikburda, þó þad sé ordid ársgamalt edur komid á annad ár; mestu gætni verdur og ad hafa á matarhæfi þess nú eins og fyrri; ad vísu má þad nú drekka óblandada nýmjólk, en allur átmatur þess ætti annad árid ad vera léttur og óstrembinn; grautur og allur sá kornmatur, er barnid gétur tuggid, fjallagrasagrautur og þesshàttar er því holl fæda. En ad troda í börnin þúngum mat, t. a. m. feitu kjöti, í því skini ad þau skuli dafna betur, er hid mesta órád, því þarvid er þeirra veika meltingar krapti ofbodid, svo ad þau í stadinn fyrir ad dafna, veikjast og fá lángvarandi innantökur og ýmislega kvilla, er stundum draga þau til dauda. Margir enskir læknar vilja ei láta géfa börnum kjöt fyrri

enn á þridja ári; en þar hafa menn um fleiri tegundir fædu ad velja enn hér er vídast kostur á, enda ætla eg ei saka, þó barni á odru ári sé einstáka sinnum géfin litill biti af mogru kjoti, ef svo er medfarid, eins og um var gétid i nidurlagi fimta kapitula; en i fyrstu ætti þad ei ad vera optar en tvisvar i viku, og ætti um leid ad taka vel eptir þvi hvort barninu verdur gott af þvi i hvort sinni, þvi ef odruvisi er, skal hætta þvi aptur um tima; ætid skal géfa barninu litid i einu, en aldrei mata þad svo, ad þad verdi trodfullt, eda hafi óhægd af, en opt verdur ad géfa þvi ad borda eda drekka, og er gott ad venja þad á ad borda hérumbil i sama mund dags. Eptir ad barnid er ordid ársgamalt, þarf ei ad þvo þad um allann kroppinn optar enn einusinni á dag, enda munu margir varla gjora þad nema annanhvorn dag. Vatnid má nú og vera kaldara enn i fyrstu, þó er ei verdt ad láta þad vera iskaldt fyrri en barnid er tveggja vetra edur eldra. Fotin eiga ad vera eins hrein og ádur er um talad, og ætti aldrei ad skipta skjaldnar um skirtu enn annanhvorn dag, allt þángad til barnid er tvævett, og enda þrévett ef vel væri. Þar barnid nú er opt úti og á opt ad koma út, þegar gott er vedur, ætti vel ad gæta þess, ad þad sé vel klædt, og fotin allstadar þur, og ridur þvi á ad skipta strax um á þvi, hafi þad gjort sig vott.

Á þessu timabili, frá fyrsta ári til útgaungu hins þridja árs, æfast skilningarvitin mikid, og sálargáfurnar láta sig meir og meir i ljósi; barnid æfist i ad þekkja bædi menn og hluti, og þad lærir módurmálid, fyrst ad skilja hvad adrir tala, og sidan lærir þad smátt og smátt

ad géta talad sjálft, og þá vill þad vita margt um þad sem fyrir þad ber; og má snemma marka gáfur barnanna á því, hvad sum eru spurulari enn sum, taka betur eptir því er þeim er sagt, og muna þad betur. Nú vakna einnig gédshræringarnar hjá barninu, og eru þær fyrstu: sorg og gledi — enda koma þær opt fyrir í lífinu — því fyrst gráta bornin af sorg, af því þau vantar eitthvad; en verda glod, þegar þau t. a. m. sjá bert módurbrjóstid og þau eru svaung; seinna vaknar hrædslan, og seinast reidin. Pad er mikid heimskulegt sem sumir gjora, ad hræda úngborn, einkanlega á einhvorju því, er þau ekki sjá, því þau fá snemma þá hugmynd, ad þad sé eitthvad ógurlegt og hrædilegt, og lodir þad opt leingi vid frameptir æfinni; born verda, t. a. m. opt myrkfælin af því þau eru hrædd á grilum, eda odrum vofum, er í myrkrinu eiga ad búa; verda opt svo mikil brogd ad þeim áhrifum, sem slíkt gjorir á barnid hvad eptir annad á úngbarns aldrinum, ad þeim gleymast þau næstum aldrei; enda verda morg born myrkfælin og hjartveik, af medferdinni í úngdæminu. Lángtum betra er ad ótta þeim þegar þau eru óþekk, med vendi, sem módirin gétur sýnt þeim, og slegid honum á kné sér og látid þau skilja ad hann slái þau, ef þau ei séu þæg og gód; því þau komast fljótt ad raun um, ad vondurinn er ei annad enn verkfæri í módurinnar hendi, og af því þau sjá hann, óttast þau ei ad hann búi í myrkrinu, en hrædast þó verkanir hans nóg fyrir því. Svo ad barnid læri þess betur ad tala, ættu þeir er búa í húsi med því, þegar þad er komid á annad og þridja ár og eldra, ad gjora sér þad ad skyldu ad tala vid þad, þegar svo ber undir og segja því

allt hvad þad spyr um, en segja þvi ætid satt. Fordast ættu menn ad erta børn nokknrutima, eda reita þau til reidi; þad er nóg hvad þau kita innbyrdis, hvar fleiri eru saman; séu børn opt ert, eda þeim sé stridt, verda þau verri i gédinu, þvi gédslagid geingur ad nokkru leiti i erfdir, og ad nøkkru leiti lagast þad eda spillist med umgeingninni i úngdæminu. Þar á móti ættu foreldrarnir ad æfa og styrkja allar þær gódu tilhneigingar hjá bornunum, med þvi ad umgángast þau med blídu, leika vid þau, gjøra þeim opt eitt og annad til gamans, eptir þvi sem kostur er á, venja þau á ad fara vel med dýrin, og s. frv. þvi þad er ljótur vani, ef børn hafa gaman af þvi ad fara illa med sképnurnar; somuleidis á ad venja born á ad vera gód hvort vid annad innbyrdis.

Þótt þad ei ondverdlega væri tilgángur minn ad skrifa lækninga-bók um barna sjúkdóma, heldur einasta ad leida rok ad þvi, ad margir barna sjúkdómar komi einmidt af medferdinni, og sýna hvornig hún ætti ad vera logud i ollum adal-atridum, til ad géta med þvi komid i veg fyrir nokkra af þeim, ætla eg þó i stuttu ágripi ad minnast á þá helstu kvilla, sem opt ásækja nýfædd born.

## Attundi Kapituli.

### Um þá sjúkdóma er almennast koma fram i nýfæddum børnum.

Þad er eitthvad hid ordugasta er fyrir læknir kémur, ad géfa rád vid ýmislegum sjúkdómum úngbarna, einkum þess vegna, ad barnid er ómálga, og gétur ei sagt til hvernig veikindum þess er varid, og verdur þvi ekki

farid eptir ødru enn því, sem læknirinn, eptir útvortis merkjum, getur giskad sér á um edli sjúkdómsins, og má nærri géta ad þad muni opt vera hæpid, og ei ad øllu áreidanlegt, og líka á lækniriun opt ordugt med ad rekja nákvæmlega fyrir alla medferd, sem høfd hefir verid á barninu, einkum sé þad ei brjóstbarn, ef ské mætti — sem opt mun vera — ad sjúkdómurinn orsakist af einhvorju mistaki, annadhvort hvad fædnna, eda loptid eda annan adbúnad snertir, og er þá ómøgulegt ad ráda bót á því med ødru móti, enn ad medferdinni i því tilliti sé strax breytt á þá leid, sem vera ber.

Skjaldan er til þess ad ætla hér i landi, hvar vidast er lángt til lækna — og þeir sem optast ei hafa séd barnid, og því ei geta þekkt medferdina til hlýtar — ad þad andnist, ad fá læknis-medøl handa úngbarninu á lifsjabúdum, enda hjálpa medøl allskjaldan, nema medferdin sé því náttúrlegri, og er þad þá mest medferdin er læknar barnid, og því ættu menn sem skjaldnast ad brúka medøl vid úngbørn, því þau gjøra opt litid gagn, og stundum illt eitt. Nú vil eg einasta varpa tolu á þá almennustu barnakvilla, er menn þekkja af útvortis kénnimerkjum, og géfa þeim mædrum og fóstrum, er ei géta náð til læknis, hugvekju um medferd á þeim. En þeim, sem eiga kost á ad tala vid læknir, bædi um þessi og ønnur veikindi, er barninu kunna til ad vilja, vil eg rádleggja ad spyrja hann til ráda i sérhvorjum tilfallandi sjúkdómi, og gjøra þad heldur fyrri enn seinna, og lýsa fyrir honum greinilega allri medferd á barninu, því þá fyrst getur hann dæmt um, af hvorju veikindin muni koma, og hvernig þeim sé varid, og eptir því rádid bædi til breytingar á medferd-

inni og hvors annars, er honum þurfa þykir. Þeir kvillar, er eg vil stuttlega minnast á, eru: **Hardlífi, Nidurgángur, uppkøst, magakveisa, gyla, munnángur** eda munnskóf, **augnaveiki, húdleisi** eda skinnleysi, **krefda, hósti, hitasótt, sinateigjur** eda **krampi,** og **ginklofi.**

1. **Hardlífi.** Eg hefi ádur gétid þess, ad þegar barnid fædist, eru allir þarmar þess fullir af dokkleitu slími, og er en fyrsta módurmjólk af Skaparanum þess edlis, ad hún hreinsar þad burtu, þvi hún géfur barninu hægdir. Fái nú barnid anadhvort ekki módurmjólkina, edur ekki nógu snemma, eda slímid, annara orsaka vegna, ei géti hreinsast úr þormunum, má géfa barninu volgt vatn med miklu sykri i, svo þad sé vel sætt, og þarf skjaldan meira enn nokkra teskeiði af því til ad hreinsa barnid, einkum komist þad á brjóstid seinna. Sé þad ei haft á brjósti, má géfa því misu, blandada med volgu vatni, ad drekka fyrstu dagana; meira þarf skjaldan i fyrstu, því fái born, ad óþorfu, meiri opnandi medøl fyrstu dagana enn þau þurfa, fá þau af því óhægd og magaveiki. Þegar barnid hefir lifad nokkra daga, verda saurindin ljósgul á lit, og hálfþunn, og er þad merki til þess, ad þad sé heilbrigt i maganum. Þrisvar eda fjórum sinnum á úngbarn vanalega ad fá hægdir i sólarhring, i fyrstunni, en seinna nokkud skjaldnar; þó ætti hvort barn ad fá hægdir ad minnsta kosti tvisvar i sólarhring, þángad til þad er meir enn missirisgamalt; skjaldnar má þad ei vera, því annars verdur barnid veikt, fær magaverk, uppþembu, uppkost, hitasótt, og fl.; einkum verdur þessa ad gæta, um þad leiti sem barnid fær tennur, og enda ætid, því flest barnaveikindi hafa upptok i maganum. Brjóstborn

hafa lángtum optar edlilegri hægdir enn hin, er lifa á annarlegri fædu, og liggur optastnær orsökin í matarhæfinu, sem vel verdur ad íhuga; má þá géfa barninu í stadinn fyrir mjólkurbland, sæta misu med sykri í, vid og vid, eptir sem þorf krefur, því hvorutveggja géfur hægdir, bædi sykrid og músan. Ef meira þarf vid, má einstöku sinnum géfa barninu opnandi medal, helst annadhvort barnapúlver, hrært í sundur í volgu sykurvatni, litinn tespón, eda, sem enda er betra, hálfann tespón eda heilan eptir aldri af opnandi olíu (ɔ: laxer eda ormaolíu), sem er þad einasta hægda-medal, er menn brúka vid úngborn í Englandi; allar þær opnandi saftir, er sumir brúka, og opt verda súrar, eru lakari. Fái barnid snögglega verk í magann, eda verdi órótt, og hafi ei nýlega haft hægdir, eda þad fær uppköst, er fljótast og best annadhvort ad setja því litla stólpípu, eda taka mjóann hala af steiptu kérti, og smeygja mjórri endanum inn í endaþarm barnsins, og láta liggja þar um stund; líka má brúka mjóann, tálgadann og aflángan mola af hvítri sápu, því þad gjörir líka verkun og stólpípa. Ef barn hefir jafnadarlega hardlífi, verdur eingaungu ad laga þad med matarhæfinu, því ei er gott ad brúka opt önnur medöl vid úngborn.

2. **Nidurgángur** er hér almennur á þeim úngbornum, er ei eru hofd á brjósti, en lángtum sjaldnari og svo nær sem aldrei á hinum, er mylkja módurbrjóstid. Saurindin eru þá þunn, og renna þá opt frá barninu, eru grænleit og stundum blódlitud, med miklu slími í, og hefir barnid þá optast um leid kveisuverki, er merkist af því, ad þad er órótt. Þær almennustu orsakir þessa kvilla,

eru, ad barnid fær annadhvort ofmikla, þúnga, súra, kalda og óhendtuga mjólk, eda adra fædu, eda er ordid fyrir kæling, eda ofmikil hreinsandi medøl hafa verid brúkud, eda barnid tekur tennur um þad leiti. Stundum er litid varid í þennann kvilla, ef ei eru mikil brøgd ad honum, og um tannkomutímann er hóflegur nidurgángur barninu hollur, en hann getur líka opt ordid slæmur, og mikid hættulegur, og því ridur mikid á ad rannsaka hvar af hann muni koma; sé mjólkinni um ad kénna, þá má ei géfa barninu ena sømu mjólk sem ádur, nøkkra daga í rod, heldur lángtum meir vatnsblandada enn ádur, og enda, sé nidurgángurinn mikill og illa lyktandi, einga mjólk, en í hennar stad, seydi af hafurgrjónum eda bygggrjónum, vel siad; séu hrísgrjón til, er seydi af þeim best af øllu; ætti barnid ad drekka þad í stadinn fyrir mjólk, og hjálpar þad optast, ef í tíma er brúkad. Lífinn ætti ætíd ad halda vel heitu, og leggja vid þad volga ull innanundir føtin, því þad linar kveisuna; batni nú barninu vid þad, ad drekka hid volga grjóna seydi, og hafa ull vid lífid, skal ennþá halda því fram nokkra daga, og sídan géfa því leingi á eptir, þynnri mjólk eda meir vatnsblandada enn ádur, og enda brúka stundum grjóna seydi, til skiptis vid mjólkurblandid, og géfa vel gætur ad því, ad allt hreinlæti sé vid haft í því hvad barnid drekkur.

3. **Uppkøst** eru ei hættuleg, ef þau ad eins ekki koma ad nema einstøkusinnum, eptir ad barnid hefir nýlega drukkid, því þá er þad ei af odru enn ad barnid hefir drukkid ofmikid í einu, og rennur þá uppúr því þjáningarlitid; sé barnid því líflegt ad øllu odru, og ei gángi annad ad því, þarf ei ad óttast þann kvilla. En haldist

uppkostin stødugt, og missir barnid matarlyst, og verdur magurt og vesældarlegt, gétur þessi kvilli ordid hættulegur, en þad er skjaldgæft, nema nidurgángur eda hardlífi fylgi med, og á þá ad fara med hvort fyrir sig, eptir því sem sagt er um hardlífi og nidurgáng; hafi barnid ei nidurgáng, er ætíd óhætt ad setja því stólpípu, því optast er orsökin fólgin í því, ad barnid fær ofþúnga, kalda eda á einhvorn hátt óhendtuga mjólk, og er adferdin þá hin sama, einsog nú var sagt um nidurgánginn.

4. **Kveisa** kémur opt í úngbörn; þekkist hún af því ad barnid verdur órótt, hljódar mikid med koblum, kreppir knén uppad maganum, er órólegt í svefni, og hættir opt ad sjúga, eda hljódar hástofum á milli þess sem þad sýgur brjóstid eda pípuna. Lífid er stundum uppþembt, þó er þad skjaldan vidkvæmt, því þad linar opt, ef menn strjúka lífid litid eitt med hægd, og stundum linar kveisan, ef börnin eru látin liggja á grúfu. Saurindi barnsins eru þá opt grænleit med hvítum eitlum.

Orsakir kveisunnar eru margbreittar; stundum hardlífi, stundum þúng og óhendtug fæda, hvaraf vindar vaxa í maganum, stundum kæling, og veikur meltingar kraptur hjá barninu. Þad ber og vid, ad barnid, ef þad er brjóstbarn, fær kveisu af því, ad módirin hefir haft venju fremur einhvorjar gédshræringar, eins og um er talad hér ad framan. Þó barnid þjáist mikid í þessum kveisukostum, eru þau skjaldan hættuleg, ef þau ei koma því optar. Best er sem fljótast ad setja barninu stólpípu med toluverdri feiti í — þó má ei allur lögurinn í stólpípu handa úngbarni vera nema þridjúngur úr pela — svo

það fái hægðir; leysist þá vindur um leið, batnar því fljótlega. Nokkrum sinnum má láta barnið drekka volgt vatn með sýkri i, og strjúka allt lifið upp og niður með volgum klút, er smurður sé með feiti, og láta hann svo liggja við lifið á eptir, eða heita ull i hans stað. Að öðru leiti verður að íhuga hvort kveisan ei hafa komið af einhvorri óreglu i matarhæfinu, því ef svo skyldi vera, verður, að forðast það framvegis. Séu hoffmannsdropar til, má géfa barninu 2 eða 3 dropa af i þeim i vatni.

5. **Gula** kémur opt út á börnum fyrstu dagana eptir fæðinguna, helst á þriðja og fjórða degi; nefni eg hana hér, til þess mæðurnar ei hræðist hana, því hún er aldrei i sjálfu sér hættuleg, og hverfur sjálfkrafa aptur eptir nokkra daga. Skyldi nokkurs við þurfa, þá er það það, að géfa barninu nokkra teskæni af volgu sýkurvatni, til að orsa hægann niðurgáng, einn eða tvo daga.

6. **Munnángur**, er sumir kalla munnskóf, er almennt á úngbörnum. Munnurinn og hálsinn verður allur innan þakinn hvitri skóf, er nær stundum niður i maga og niður i barka. Munnángur byrjar með því, að munnur barnsins verður heitari, og dökkrauðari innan enn vant er, og barnið verður óværara enn áður. Þvínæst koma hvitleitir smádilar á túnguna og innaná varirnar, líkast því sem væru það smá agnir af drabla. Síðan vaxa þessir dilar og fjölga, þángaðtil þeir ná viðast hvar saman, og verða að hvitri skán innan i öllum munninum; varir það þrjá eða fjóra daga eður leingur, og flagnar þá loksins af aptur, en munnurinn verður viðkvæmur, skinnveikur og dökkrauður nokkra daga á eptir. Börnin renna niður miklu af þessari skán, og verður vart við hana i

saurindum þeirra. Stundum kémur munnángur aptur og aptur, og þjáir þá barnid um tíma. Orsokin til munnángurs mun optast vera — sén mikil brogd ad því — eitthvort óhreinlæti; annadhvort er mjólkin súr, edur mjólkur ilátid ei nógu hreint, eda pípan, sem barnid sýgur med, ekki nógu opt eda vandlega þveigin. Pad er víst ad mikid munnángur er skjaldgæfara á brjóstbornum enn hinum, er fædd eru á annari fædu, einkum ef brjóstvorturnar eru opt þveignar, og verdur því ad hafa hid mesta hreinlæti og vandlæti um allt sem barnid drekkur og því vidkémur. Pad besta medal vid þessu er, opt ad strjúka med hreinni rín, vafinni utanum fingur sinn, allt sem laust er af skáninni innan i munninum, og bera svo á túnguna vel mulid hvíta sykur, hrært saman vid ósúrann rjóma, um leid og barnid sýgur i hvort sinni, og géfa barninu inn vel sætt sykurvatn, eda lítid i teskæni af opnandi olíu eda barnapulveri, sem um var gétid hér ad framan, svo þad fái orari hægdir. Fái barnid líka nidurgáng eda uppkøst, verdur ad géfa því léttari fædu, t. a. m. grjónasúpur, er talad var um þegar minnst var á nidurgánginn. Stundum slær raudum dílum útum barnid hingad og þángad, og er þad góds viti, því þá batnar opt munnángrid.

7. **Augnaveiki** fá úngborn opt, og er þad ad vonum, því augu þeirra eru svo vidkvæm, ad þau þola hvórki minnstu óhreinindi, dupt, reyk, eda vindsúg, né ad ljós skíni i þau; og er ætíd eitthvad af þessu orsok til augnveikis þeirra. Hún byrjar opt fyrst med hægd i odru auganu, med litlum rodma i augnalokunum, og verdur þá lítid eitt vart vid slím i augnakrókunum, en fljótt breidir rodm=

inn sig útá sjáaldrid, og sama byrjar i hinu auganu. Nú bólgna augnalokin allt i einu, svo barnid gétur ei lokid augunum upp, en mikil vilsa rennur úr þeim, og sé ei nákvæm hyrdusemi vidhøfd, gétur barnid ordid blindt alla æfi, og þad fyrri enn nokkurn varir. Þó þarf ei þad ad óttast, ef athygli er strax i tima vidhaft, einkum i þvi ad taka eptir nær sjúkleikinn fyrst byrjar, þvi þá má opt hindra augnveikina næstum þvi i byrjunninni, med þvi ad þvo og hreinsa augun opt á hvorjum degi úr volgu vatni, eda volgu mjólkurblandi, og halda þvi áfram svo leingi sem augun eru veik, hvort mikid eda litid verdur af augnveikinni.

Øll hættan i þessum sjúkdómi er i þvi innifalin, ef sú skarpa vilsa, er kémur frá kyrtlunum innanundir augnalokunum i kringum augad, nær ad skémma sjáaldurs himnuna, þvi þá verdur hún ei leingur gagnsær, og er þá sjónin farin. Þad er þvi vissasta medalid ad láta aldrei vilsuna stadnæmast yfir sjáaldrinu, heldur opna augnalokin med fingrunum, og láta hid volga vatn, eda mjólkurblandid renna inni augad opt á dag, þvi þad rennur út aptur og nemur vilsuna burt med sér. En hægast af øllu er ad hindra þennann kvilla med þvi, ad þvo fyrst vandlega augun i laugartroginu, eins og ádur er um gétid vid laugina, og sidan daglega, og fordast allt þad er um var gétid ad auganu géti ad meini ordid.

8. Skinnleysi kémur helst á úngborn hvar skinnid liggur, eins og i brotum, saman hvad vid annad, eda hvar óhreinindi barnsins liggja vid, eda væta kémur ad. Vid þessu þarf ei adra lækningu enn hreinlæti, þvi sé barnid daglega vel þvegid i volgu vatni, og þar á eptir úr

kaldara vatni, hvar rodmi sækir á, t. a. m. nedan í krik-unum, og svo framvegis, þarf aldrei ad óttast skinnleys-id; þad kémur því minna á bornin, sem hreinlegar er farid med þau; en sé þad nú á annad bord komid á barn-id, er ekkért betra rád, enn ad þvo þad, þar sem þad er ordid skinnlaust, opt á dag, fyrstu vikurnar úr hálfkoldu vatni, en seinna úr koldu, því þad grædir og styrkir skinnid best; svo skal og skipta á hvorjum degi um skyrtu á barninu, eins og rád er fyrir gjort, þegar hreinlega er farid med barnid. Sé barnid feitt og mikid skinnleysi sækir á þad, skal í hvort sinni sem skipt er um blænr, fyrst þvo þad í koldu vatni, hvar þad er skinnveikt og strax á eptir í hvort sinni, bera þar á annadhvort ósúr-ann rjóma, edur seydi af hafurgrjónum, ef til eru.

9. Krefda er sá barnakvilli er hvorgi er svo al-mennur sem sumstadar hér í landi, enda hefi eg skjaldan ordid var vid hann á þeim bornum, er átt hafa vid hrein-lega medferd ad búa, eda hofd eru á brjósti; en í sum-um hérudum hefi eg bædi sjálfur opt séd hana, og heyrt fólk einsog ætlast til, ad hvort barn feingi hana. En þad er ekki svo eptir náttúrunnar edli, og eg hefi séd morg hundrud úngborn, er aldrei hafa feingid krefdu, og hafa þó ordid heilsugód. Krefdan er útbrot um andlit og hofud, og færist stundum um allan kroppinn og alla útlimi; Koma þykk hrúdur á hvort sár, og grefur opt leingi í þeim; þegar þau gróa á einum stad, koma þau stundum fram á odrum Hérvid gagnar ekkért medal nema hreinlæti, t. a. m. ad lauga barnid í volgu vatni daglega, og géfa því léttari fædu enn ádur, ef þad ei er brjóstbarn, helst misu og grjónaseidi; þarámóti er þad hid mesta órád ad

bera nokkurn hlut á barnið útvortis, annað enn volgt vatn, við slíkum kvilla; annars slær krefðunni inn, og gétur það orðið hættulegt fyrir barnið. Krefðan kémur optast af því, að barnið annaðhvort hefir haft óhendtuga fæðu, eða á einhvorn hátt óhreinlega, ef það er ei brjóstbarn, eða því hefur ei verið haldið vel hreinu með fataskipti og þvott, eða þá af því, að loptið hefir verið ofkaldt og óholt, hvar barnið er inni. Þegar svo er komið, að barnið hlýtur að verða veikt af einhvorju þessu, er það náttúrunnar velgjörníngur að óhollustunni slær út, og má þá ei hindra það með öðru enn óaflátanlegu hreinlæti; þaraf kémur það, að brjóstborn, er allt hreinlæti er viðhaft, og eru í góðum húsum, hvorki þurfa að fá, né fá neina krefðu eða önnur útbrot, þó það sé almennt að önnur börn, er búa við verri kjör í því falli, fái hana. Sumir láta börnin opt brúka opnandi meðöl, ef þau hafa nokkur útbrot, en ofmikið má gjöra af því, barnið gétur feingið lángvarandi niðurgáng og krefðunni sleigið inn, og þá verður hún fyrst hættuleg. Einstökusinnum má géfa barninu inn 1 teskeið af opnandi olíu — einusinni eða mest tvisvar í viku — en eingin önnur meðöl þarf það við krefðunni, og varla þetta, ef það við og við drekkur mísu, eða er brjóstbarn. Volgt bað á hvorjum morgni í trogi eða stampi, verður það einasta og besta meðal til að flýta henni burt aptur, og líka það óhultasta. Sama er að segja um allslags útbrot á úngbörnum; það er ei vogandi að reyna til að fá þau fljótlega burtu með öðru enn hreinlæti, enda þó eitt barnið hafi feingið þau af öðru, sem sem opt ber við hvar fleiri börn eru í húsi saman.

10. Hósti getur verid ýmislegrar tegundar á börnum; stundum er litid i hann varid, en stundum mikid, og er ei gott, ad þekkja hann stundum ad i fyrstu. Á börnum á fyrsta ári er þad optast slimhósti, nema þegar hóstasóttir gánga, annadhvort kominn af kjæling, eda reyk i húsinu, eda þá af súr i mjólkinni; þad besta heimarád er ad géfa barninu kandis - sykur, brædt annadhvort i volgu vatni, volgri misu, edur hafurgrjóna seydi. Sykrid, og allt hvad sætt er, á vel vid allann hósta; gjörir þad og lausari hægdir, ef barnid þyrfti þess med, og hagar þad barninu vel, ef þad adeins ei hefir nidurgáng ádur. Þá skal brúka grjónaseidi med litlu af sikri i; sé volgt sykurvatn géfid barninu til muna, kastar þad stundum upp af því, og er þad gott, ef hóstinn er slæmur, því hann linar opt eptir þad. Volga ull eda heitan ullardúk, ætti ad leggja á og yfir brjóstid og hálsinn á barninu, og sé kaldt i húsinu, verdur ad hafa heitari föt i kringum þad enn vant er.

Hvernig sem hóstanum er varid, er þad adalregla ad halda barninu allstadar vel heitu, gjöra því opt volgt fótabad, og láta þad jafnadarlega drekka eitthvad volgt og sætt.

Sé hóstinn svo slæmur, ad barnid stundum valla nái andanum i hóstakostunum, má auk þess er nú er talid, láta þad optlega gina yfir, — edur anda yfir — gufu af volgu vatni, því gufan losar uppgánginn og léttir þar vid hóstann.

Þegar börn hafa hósta, má ei bera eda láta þau koma út, nema vedur sé hlýtt, lygnt og þurt; einkum ridur á því, ef hóstinn er tööluverdur, og barnid lasid af honum.

11. Hitasótt (Febris) eda Feber, kémur stundum i born alein og útaf fyrir sig, en stundum er hún samfara odrum þeim kvillum, eda þeir henni, sem ádur eru taldir; barnid verdur þá heitara enn vant er i framan og um hofudid — og aptur kaldt med koblum — opt er þad lika toluvert heitara um allann kroppinn; stundum er þad órótt, stundum liggur þad eins og i dái, og mókir þá mikid, en laust og órólega. Andardrátturinn er fljótari enn vant er, og barnid þyrstir mikid. Þegar svo er, verdur þess vel ad gæta, ad ei sé of heitt i húsinu, og einkum ad barnid sé létt og þunnt klædt um hofudid — ársgomul born meiga helst vera berhofdud — og ei má þá heldur hafa mjog heit fot ofaná því. Sé barnid ei brjóstbarn, verdur ad géfa því léttari fædu enn vant er, og vatnsblandada misu med sykri i, ef þad ei hefir nidurgáng; eda, sé hitinn mjog mikill, helst tómt, hreint og volgt vatn i eitt eda tvo dægur, med litlu af sikri i, svo þad drekki því ljúflegar, en einga mjólk. Annars má brúka eitthvort þad grjónaseidi, er ádur er um talad. Hafi barnid ei gódar hægdir, eda túnga þess sé óhrein, verdur annadhvort ad setja því stólpipu — ef þad er eldra enn svo, ad sikurvatnid eda sikur-misan géti orkad ad gjora því gódar hægdir — eda géfa því, eptir aldri, hálfann eda heilann teskón af opnandi olíu, ef til er. Ef hitasóttinni fylgja uppkost, nidurgángur, munnskóf eda annad, er hér er upptalid, verdur ad hafa tillit til, hvad sagt er um sérhvort af þessu; svo þarf og ad ihuga, hvort óhendtug eda illa verkud fæda, slæmt lopt, eda eitthvad er mennirnir géta adgjort, ei muni valda sóttinni, og þá ad fordast þad, ad svo miklu leiti sem mogulegt er.

12. **Sinateygjur** eda krampa-sløg, koma ad sonnu allskjaldan i úngbørn hér á landi, þó ber þad vid, helst um tannkomu-tímann. Þau eru ætid slæm, ef þau eru til muna, en þó ei ætid hættuleg, þvi eg meina hér þau krampa-slog, er ei vara leingi i hvort sinni, en ei stødugann krampa, t. a. m.. ginklofann.

Sinateigjur géta komid af ýmislegu, stundum af eintómu hardlífi eda af vindkveisu, sem strax hverfur ef barninu er sett stólpípa. Líka gétur kjæling, tannvoxtur, ormar i gørnunum, gédshræringar módurinnar, ef barnid er brjóst-barn, valdid þeim, og margt fleira, stundum koma þær i og ásamt med ødrum sjúkdómum. Barnid fer þá fyrst ad ránghvolfa i sér augunum og afmindast i framan, kreppir útlimina, eda lemur þeim og brýtst um ónáttúrlega, andar-drátturinn verdur úkyrr, og hættir stundum nokkur augna-blik. Medan slagid varir, eda strax og þad byrjar, á ad sletta koldu vatni framani barnid, losa føtin um þad, helst um hálsinn og brjóstid, og láta þará drjúpa nokkra dropa af koldu vatni. Gæta verdur þess og, ad barnid ei ofreyn-ist, ef fast er haldid útlimum þess, og verdur ad ford-ast þad. Þegar slagid er aflidid, og barnid, einsog optast skédur, er fallid i svefn, á strax ad setja þvi stólpípu til ad koma i veg fyrir fleiri þvilík kost.

Hafi barnid hardlífi, eda nokkur grunur sé á, ad þad muni hafa orma, — hægt er ad taka eptir hvort orm-ar hafa geingid nidur af barninu — ætti brádum ad géfa þvi inn, þá opt umgétnu, opnandi oliu, er lika kallast hér af sumum orma olia, þvi ormar drepast af henni i þormunum; um høfudid ætti ad leggja klút, vætt-ann i koldu vatni, opna glugga, svo hreint lopt leggi inn,

en breida vel ofaná barnid, og sídan fordast allt þad er líkindi eru til, ad slaginn hafi valdid.

13. Ginklofi eda munnkrampi, er sá vesti og hættulegasti af øllum krampa tegundum; þegar nýfædt barn fær hann, kémur hann optast um þad leiti, sem dettur frá nabla þess, fimta eda sjøtta daginn eptir ad þad fæddist, skjaldan seinna, en ef svo er, er hann stundum minna hættulegur, þó hann ætid sé þad í meira lagi.

Hann sýnir sig fyrst í því, ad barnid á ørdugt med ad sjúga, andlitid afmindast og kreistist saman, raustin verdur ónáttúrleg, barnid kémur ei upp vanalegu hljódi, heldur emjar þad, einsog hálsinn kreistist saman, í því þad ætlar ad hljóda. Þad fær kost, likt og adkénning af sløgum, og blánar þá allt í framan, gétur ei opnad munninn, sem klemmist meir og meir saman, og rennir eingu nidur. Høfudid reigist aptur á bak, og hálsinn og hryggurinn verdur hardur eins og tréstaur, en útlimirnir verda stifir og kreppast saman. Í fyrstu kémur þetta nokkud med køstum, en þau verda tídari og leingri, og barnid þó aldrei náttúrlegt á milli kastanna. Seinast verdur barnid eins og tréstaur, nær ei andanum, kólnar upp og deyr, fám døgum eptir ad vart vard vid þad væri veikt; þessi sjúkdómur á úngbørnum er einhvørr hinn versti vidureignar, og seigja Enskir, ad þad takist ei bestu læknum ad lækna hann med neinu, og likt geingur þad hér í landi; því þó einstakt barn, af mørgum, lifi hann af, þá gétur þad verid af náttúrunnar eigin ramleik, því fáir sjúkdómar eru svo, ad einginn géti lifad þá af, enda ætla eg mjøg fá børn muni lifa Ginklofann af, nema þau, er fá hann fyrst hálfs mánadar gømul, þeim hefi

eg optar séd batna, og á þremur fullordnum hér i grend, sem eg hefi komid til, hefir hann batnad.

Pad er því mest áridandi ad leitast vid ad uppgotva þær orsakir, er þessum sjúkleika valda. Hann er vidasthvar i allri nordurálfunni ordinn mjög sjaldgæfur, nema á nokkrum af Skotlands eyunum, og hér i Vestmannaeyum; svo hefir hann og opt stúngid sér nidur hingad og þángad hér um sudurland. Á nokkrum eyum er hann svo almennur, ad meiri hluti allra barna, er fædast, deya úr honum; en þad eru nú helst Vestmannaeyar og Kilda, er ádur er umgétid, og nokkrar eyar i Vesturindíum. Þessar eyar hafa þad sameiginlegt hvor med annari, ad þær eru fjalleyar og hálendar, en bygdin er i dalverpum nidur vid sjóinn, og er þar því mikid rakasamt, en innbúarnir lifa á fiskiveidum og fuglatekju, og hafa litinn eldivid, og verda því ad brenna ollu, sem til verdur tint, fugla-, og fiska-beinum, og svo frv. því hvorki er þar skógur né mótak. Vatnid kvad vera gott á Kildu, og á Vestmannaeyum er þad bædi gott og slæmt, eptir því hvad lángt madur vill sækja þad. Utiloptid hlýtur ad vera gott á bádum þessum eyum, því þær liggja i rúmsjó, og sjóloptid er ætid hollt og hreint. Þetta er nú hvad eyarnar hafa sameiginlegt af náttúrunni; en lifnadarháttur innbúa segja þeir, er á bádum hafa verid, sé nokkud sviplikur, nema hvad hann hefir batnad á Vestmannaeyum seinustu árin. Hvad nú því muni valda, ad Ginklofinn er þar svo almennur, þori eg ei ad fullyrda, en þad veit eg, ad þad er nóg orsök til hans, ef loptid inni i húsunum er rakafullt, fúlt, fyllist opt med reykjarsvælu, og yfir hofud er

það rakasamt og einhvör ólykt þar inni, annaðhvort af skepnum, sem hafðar eru á baðstofugólfinu, eða af öðru er inni í bænum er, því meira þarf ei að valda ginklofanum, enn raki og óhreint lopt; en það géta máské verið fleiri orsakir, er eg ei þekki til, því eg hefi í hvörugar þessar eyar komið. Þau einustu úrræði til að koma í veg fyrir þennann sjúkdóm á börnunum, eru:

1. Að halda húsunum, sem konan, meðan hún er ólétt, og barnið, eptir það er fædt, lifir í, þurrum og hreinum, og sjá um, að loptið ætíð sé lyktarlaust, og endurnýist jafnaðarlega með hreinu lopti utanað, einsog opt er talað um hér að framan; svo riður og mikið á eptir að barnið fæðist, að hlýtt sé í húsinu; einkum fyrstu vikurnar.
2. Mæðurnar ættu um meðgaungu tímann að varast að vera í reykjarsvælu eða rakahúsum að staðaldri. Mataræði þeirra um meðgaungu tímann, ætti ei að vera mikið kjötmeti, allrásíst fuglakjöt, heldur mest mjólkurmatur, mjölmatur og fiskæti. Aldrei skyldu þær liggja á þeirri sæng, er nýtt fuglafiður er í, og ætíð hafa til matar og drykkjar, svo hreint vatn, sem kostur er á.
3. Þegar barnið er fædt, skal fylgja nákvæmlega nærkonu reglum um alla meðferð á naflanum, og ætíð, þegar mögulegt er, hafa barnið á brjósti, að minnsta kosti í nokkrar vikur, og varast að láta reyk, óhollt lopt eða kulda, koma að barninu, en þvo það úr heitu vatni á hvörjum degi; svo á móðirin og fyrstu vikurnar, meðan hættan er mest, að hafa sama mataræði sem nú var sagt. Að öðruleiti má fylgja þeim

reglum, er eg hefi hér ad framan géfid um hreinlæti og allann adbúnad barnsins yfir hofud, og er þad því hægra ad vanda þetta sem mest, þegar fordast á Ginklofann, sem valla er ad óttast hann eptir enar fyrstu tvær eda þrjár vikur; þó er óhultast ad halda þessu áfram, því þad gétur varnad fleirum sjúkdómum enn Ginklofanum einum.

Med þessum hreinlætis reglum hefir Enskum audnast ad gjora Ginklofann lángtum skjaldgæfari á morgum af Skotlandseyunum enn hann var ádur — því hann var þar vida almennur á 18du old — nema á Kildu; þar hefir innbúunum ei ordid talin trú um, ad þad væri betra ad búa i hreinu lopti enn óhreinu, og því er hann hvorgi eins algeingur sem þar. Þegar Ginklofinn stingur sér nidur á einstaka barni i sveit, kénna menn þad opt, auk þess er ádur er talid, géds ástandi módurinnar, medan hún geingur med barnid. Menn þykjast sumsé hafa komist ad raun um, ef módirin lifir um medgaungu timann i sifeldri ángist, sorg og kvida, eda hún er mjog óróleg i gédinu, ad þad verki svo á fóstrid, ad því verdi hætt vid ad fá allkyns krampaveiki, og enda Ginklofa, eda þá stundum annan sjúkleik. Annars er ei hægt ad segja, hvor orsok sé til þessa sjúkleika á hvorju einstoku barni, hvar hann er skjaldgæfur, því menn þekkja ei nógu nákvæmlega allar þaradlútandi kringumstædur; en þegar hann er almennari á þeim stodum, hvar lifnadarháttur er i einhvorju frábrugdinn almennri venju, er þad liklegast, ad hann komi af því, ad ei sé þar eins vel vandad til med allann þrifnad, eins og hjá hinum, hvar hann er skjaldgæfari; þykjast Enskir

hafa af reynslunni fullkomin rök fyrir því, að óhreint lopt, hvort sem það er af raka, reyk eða annari ólykt, valdi honum; því hann hefir áður til forna geingið víða á Írlandi, og annarstaðar, en er nú orðinn þar mikið skjaldgæfari, og því nær horfinn.

